# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!


**Sumarbúðir:**

Brottför sunnanlands: Þátttakendur mæti kl.8[00] laugardaginn 5.ágúst við Hópferðamiðstöðina Suðurlandsbraut. Brottför kl.8[30].


Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

13.tbl. 4.árg. 18.júlí- 1.ágúst 1978 15o kr.


## 10 ár frá innrásinni í Tékkóslóvakíu

# „Allt stuðningsstarf einkar mikilvægt nú“

## viðtal við Matthías Sæmundsson



21. ágúst n.k. eru liðin rétt 10 ár frá innrásinni í Tékkóslóvakíu. Gerum 21. ágúst að baráttudegi gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna!

Myndaserían af Brésjnev er úr ADYNLIK, dagblaði marx-lenínista í Tyrklandi.

Þriðjudag 18.júlí var stofnfundur 21.ágúst-hreyfingarinnar. Þar sem fundinn bar upp á útgáfudag þessa tölublaðs Verkalýðsblaðsins verður að bíða næsta blaðs að flytja fregnir af þeim ágæta fundi. Við snerum okkur til eins þeirra sem sæti eiga í þeim frumkvæðishópi er til fundarins boðar og lögðum fyrir hann nokkrar spurningar.

– Matthías Sæmundsson, háskólanemi, hvert er tilefni þess að hreyfingin er stofnuð?

– Segja má, að þetta sé beint framhald af starfinu í kringum 21.ágúst í fyrra. Innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu er nú orðin tíu ára gömul, og allt stuðningsstarf við frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka er einkar mikilvæg nú. Slíkur stuðningur er einnig kærkomið tækifæri fyrir andheimsvaldasinna að sýna húg sinn til sovéskrar heimsvaldastefnu almennt. Á síðastliðnu ári hefur átroðsla og yfirgangur sovésku keisaranna verið meiri en nokkru sinni áður. Nægir þar að nefna Afríku, t.d. Eritreu, árásir á Kína, stjórnarbyltingar eins og í Afghanistan og Suður-Jemen, árásir þeirra á sjálfsákvörðunarrétt Norðmanna á Svalbarða og margt fleira. Þetta sýnir að við Íslendingar getum ekki látið sósíalheimsvaldastefnuna afskiptalausa, hún er að verða okkur nærtæk og bein hætta.

– Í fyrra héldu Samtök herstöðvaandstæðinga mótmælafund gegn hernáminu í Tékkóslóvakíu. Hver er afstaða ykkar sem að hreyfingunni standa til hugsanlegra aðgerða SHA nú ?

– Við leggjum megináherslu á að hreyfingin starfi sjálfstætt á grundvelli sinna eigin krafna og haldi sínar eigin aðgerðir 21.ágúst til að koma stefnu sinni á framfæri. Hins vegar leggjum við til að SHA verði boðið til samfylkingar um meginkröfuna "Sovétríkin burt úr Tékkóslóvakíu". Við teljum rétt að bjóða upp á samfylkingu um þessa kröfu eina, þar sem allar líkur benda til að styrkur trotskísta og annarra endurskoðunarsinna sé slíkur innan SHA að möguleikar á víðtækri samstöðu séu engir. Hugsanlegt samstarf okkar við SHA verður að vera á jafnréttisgrundvelli og kröfur þær sem við setjum fram geta aldrei orðið nein söluvara.

– Hverjar eru þær helstu kröfur sem boðað er til stofnfundar um ?

– Við höfum sett fram fjórar meginkröfur, sem verða þær kröfur sem hreyfingin verður stofnuð um. En auðvitað er hægt að bæta við kröfum á stofnfundi, svo framarlega sem þær brjóta ekki í bága við þennan grundvöll. Þessar fjórar kröfur okkar eru:

1. Sovétríkin út úr Tékkóslóvakíu!
2. Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka!

Framhald bls. 5

## 5., 6. og 7. ágúst:

# Fjölmennum á sumarbúðir




Þann 21. júlí rennur út frestur til að tilkynna þátttöku í sumarbúðum Verkalýðsblaðsins. Mjög mikilvægt er að fólk skrái sig sem fyrst, svo að skipulagning og undirbúningsstarf geti gengið sem best. Sumarbúðirnar eru mikilvægur liður í stéttabaráttunni og munu vafalaust verða öllum þátttakendum og framsækinni hreyfingu í heild mikil lyftistöng til áframhaldandi átaka og baráttu. Allar upplýsingar um sumarbúðirnir er að finna í 11. tbl. Verkalýðsblaðsins, en þá fylgdi sérstakur kálfur blaðinu með sumarbúðaefni. Í 12. tbl. voru nokkrar viðbótarupplýsingar. Það er sérstaklega mikilvægt að allir þátttakendur kynni sér það sem er í 11. tbl. og taki það með sér á sumarbúðirnar.

Til upprifjunar er hér dagskrá sumarbúðanna í grófum dráttum:

Laugardagur :
Komið á sumarbúðir að morgni – fólk kemur sér fyrir – leiðbeiningar í ferðalagafræðum – gönguferð í tvær klst. – fyrirlestur um náttúrufræði staðarins – kvöldvaka með leikþáttum, söng, frásögn frá Kína o. fl.

Sunnudagur :
Leikir og útivera til hádegis – skoðunarferð – umræður um miðjan daginn um ALÞJÓÐAÁSTANDIÐ, STRÍÐSHÆTTUNA OG HINA ÞRJÁ HEIMA – kvöldvaka.

Mánudagur :
Leikir og útivera – umræður eftir hádegi um STOFNUN KOMMÚNISTAFLOKKS – FJÖLDASTARF – mat á sumarbúðunum – tiltekt – heimferð um kl. 17.00.

Félagar – tökum þátt í sumarbúðum Verkalýðsblaðsins, gerum sumarbúðirnar að beittu vopni í stéttabaráttunni. Notum þessa síðustu daga vel til að safna þátttakendum.

**Akureyri**

# Uppsagnir á Heklu

Fyrir rúmum tveimur mánuðum síðan fengu konurnar á kvöldvakt "prjónadeildar" Heklu á Akureyri uppsagnarbréf. Í lengstu lög hafa þær vonað að uppsagnirnar yrðu dregnar til baka. En nú hefur lokadómur fallið yfir konunum 34. Frá 15.júlí missa þær atvinnu sína. (17 konur fengu nýja vinnu á dagvakt). Málið er því verra af því að mjög þröngt er nú um vinnu á Akureyri. Enn við bætist að 5 nýjum er nú sagt upp hjá skóverksmiðjunni Iðunni.

Nefnd sem átti að reyna að endurnýja sölusamningana við Rússana er komin til baka frá Sovétríkjunum - "það tókst ekki að semja".

Hvað er það sem Rússarnir og SÍS gátu ekki orðið sammála um? Verðið. Rússar vilja nefnilega ekki borga meira fyrir vörurnar en þeir borguðu í fyrra. Verðið er reiknað í dollurum. Þar sem verðgildi dollarans, eins og íslensku krónunar lækkar stöðugt á meðan almennt verðlag á heimsmarkaði hækkar gífurlega , hefur þetta í för með sér að samkvæmt tilboði Rússa myndu þeir í reynd borga minna en þeir gerðu í fyrra. Á því leikur enginn vafi: Tilboð þeirra er svívirða. Þannig versla aðeins þeir sem eru vissir um vald sitt, þeir sem hafa sterk efnahagsleg tök á mótaðilanum og sem hika ekki við að misnota það vald.

Annars er það ekkert nýtt að íslenskir framleiðendur eigi

Framhald á baksíðu



Hér afhendir Sumarliði Ísleifsson, varaformaður EIK (m-l) gjafir í verksmiðju í borginni Shanghai í Kína. Í opnu þessa tbl. er frásögn og myndir frá ferð sendinefndar samtakanna til Kína. Von er á meira efni um ferðina síðar.
(Mynd: Verkalýðsblaðið)

Sjá opnu

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!



# Kampútsea

Miðstjórn EIK(m-l) og Kommúnistaflokkur Kampútseu (Kambódíu) hafa skipst á kveðjum (sjá annars staðar í þessu tbl.) og gagnkvæmum stuðningsyfirlýsingum, sem er undanfari þess að íslenskir marx-lenínistar taki upp formleg samskipti við bróðurhreyfinguna í Kampútseu. EIK(m-l) fagna þessum samskiptum og munu ekki liggja á liði sínu við að efla vináttutengsl þjóðanna á Íslandi og Kampútseu, kynna sigursæla baráttu alþýðunnar í Kampútseu hér á landi og verja Kampútseu fyrir árásum heimsvaldasinna og afturhaldsafla.

Kampútsea er skotspónn fyrir kerfisbundna herferð afturhalds og heimsvaldasinna til að ausa alþýðu landsins auri og sverta baráttu hennar á allan hátt. Þetta þekkjum við m.a. af þvættingsskrifum Elínar Pálmadóttur í Morgunblaðinu, skrifum Þjóðviljans gegn Kampútseu o.fl. Ótal margt er tínt til, sumt er hreinn uppspuni, annað er "lagfært" til að falla inn í afturhaldsáróðurinn. T.d. er talað um 1-2 milljónir manna sem teknir hafi verið af lífi. Þessi tala er hreinn tilbúningur bandarískra heimsvaldasinna. Staðreyndin er sú að hópur verstu stríðsglæpamannanna í Kampútseu var tekinn af lífi - að kröfu fólksins sjálfs. Þetta voru svikarar við þjóð sína, menn sem höfðu leynt og ljóst starfað með heimsvaldasinnum við að grafa undan alþýðubaráttunni og viðhalda leppstjórn Lon Nols í landinu. Hliðstætt gerðist í Frakklandi eftir frelsun landsins undan Hitlers-nasismanum. Þá voru nokkur þúsund samstarfsmanna nasista í Frakklandi líflátnir, sumir án dóms.

En hvers vegna hatursherferð gegn Kampútseu ? Jú, Kampútsea er lítið land í Þriðja heiminum, land sem byggir á eigin styrk og afli og lýtur á engan hátt drottnun eða áhrifum risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Þessa stöðu hefur landið unnið með vopnaðri baráttu alþýðufjöldans undir leiðsögn kommúnistaflokksins og þetta er fordæmi sem risaveldin óttast að mun fleiri ríki Þriðja heimsins muni fylgja. Eðli heimsvaldastefnunnar er það, að hún krefst stöðugt nýrra markaða til að lifa og dafna. Markaðina reyna auðvaldslöndin m.a. að finna í Þriðja heiminum með því að gera löndin þar sér háð efnahagslega. Þannig var Kampútsea markaðssvæði Bandaríkjanna og þar áður Frakklands, en nú byggir landið upp eigið efnahagskerfi með því að treysta á mátt alþýðufjöldans. Með auknum umbótum í landbúnaði hefur Kampútseu tekist að verða sjálfu sér nægt um rís og flytur m.a.s. út rís ! Þar er ekki lengur hungursneyð og á sama tíma og í mörgum öðrum löndum Þriðja heimsins ríkir atvinnuleysi, þjóðfélagsleg upplausn og bágindi, þá er meira en nóg að gera fyrir alla í Kampútseu og bjart er yfir þjóðlífinu öllu.

Kommúnistaflokkur Kampútseu var stofnaður árið 1960 og hefur leitt baráttuna fyrir frelsun landsins undan oki heimsvaldastefnunnar og leiðir nú uppbyggingu sósíalisma í Kampútseu. Flokkurinn byggir á marx-lenínismanum/kenningum Maós Tsetungs, aðlöguðum að séraðstæðum lands síns og hefur náð ótrúlegum árangri í að skipuleggja alþýðuna til baráttu gegn óvininum. EIK(m-l) líta á það sem mikilvægt verkefni að styðja byltinguna í Kampútseu með því að útbreiða fróðleik um þjóðfélagsástand þar og sögu alþýðubaráttunnar. Lifi frjáls Kampútsea !

# Október-söfnunin

OKTÓBER-forlagið er eina marx-leníníska bókaútgáfan á Íslandi og styður starf og stefnu EIK(m-l). Fyrir dyrum stendur að efla mjög útgáfustarf forlagsins, enda verkefnin mörg og brýn. Baráttan krefst aðgengilegs lesefnis á íslensku um innlenda og alþjóðlega stéttabaráttu, marx-lenínismann og beitingu hans í starfi o.s.frv. Til þessa þarf átak allra stuðningsmanna framsækinnar baráttu á Íslandi. OKTÓBER-forlagið hefur sett af stað söfnun 300 þús. kr. í útgáfusjóð fram til 1.október n.k. Þeirri upphæð, og helst meiru til, verður að safna fyrir haustið. En mikilvægast er að baráttusinnar kaupi, lesi og noti allt það sem OKTÓBER og EIK(m-l) gefa út, efli þannig eigin skilning á þjóðfélagsmálum og baráttuleiðum, styrki OKTÓBER og byltingarhreyfinguna í heild.

Framkvæmdarnefnd miðstjórnar EIK(m-l)
10/7 '78.

# Eritreu söfnun

100 ÞÚS.

90
80
70
60
54.386

OUR JUST STRUGGLE WILL WIN
VÅR RETTFERDIGE KAMP VIL VINNE

FYRIR ERITREU

Október

300 þúsund fyrir 1OKTÓBER!

43.644,-

# Sumarbúðir á Norðurlandi

Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins á Norðurlandi verða með mjög sviðuðu sniði og sumarbúðirnar á Suðurlandi, að því er blaðið fékk upplýst hjá talsmanni EIK-(m-l) á Akureyri. Þátttakendur koma til með að sofa í tjöldum en aðgangur er að húsi fyrir samkomur og barnafólk. Allan viðlegubúnað þarf því að leggja til, en þátttakendur þurfa hins vegar ekki að hugsa um mat eða mataráhöld. Allt slíkt verður á staðnum. Lagt verður af stað kl.9 á laugardagsmorgun ( um verslunarmannahelgi ) frá Akureyri og er um einnar klst. akstur á mótsstað. Gert er ráð fyrir að þátttakendur komi til Akureyrar aftur síðari hluta mánudagsins. Þátttökugjald er enn ekki ákveðið, en óhætt er að lofa því að það verður ekki hátt og menn fá ótrúlega mikið af hollu og gagnlegu efni til eflingar líkama og sál fyrir aurana sína! Blaðið hvetur því lesendur sína á Norðurlandi (og fleiri) til að tilkynna þátttöku á sumarbúðir Norðanlands nú þegar. Hafið samband við Þórarinn Hjartarson, Spítalavegi 17, sími 24804.




## Um leigumiðlunarokrara

Þeir sem eru að leita sér að leiguhúsnæði um þessar mundir eiga ekki sjö dagana sæla. Risin er upp nýr hópur manna sem óskar þess að græða á neyð annarra. Þessi hópur er þeir sem reka hinar svonefndu leigumiðstöðvar. Þessar miðstöðvar hafa tekið upp þjónustu við húseigendur í mjög ríkum mæli, þannig að í stað þess að auglýsa húsnæði sitt til leigu, fara leigusalar með íbúðir sínar á skrár þessarra miðstöðva. Fyrir þessa þjónustu greiða síðan leigjendurnir. Gjald það sem leigjendur verða að greiða er nokkuð mismunandi eftir leigumiðstöðvum, en á flestum þeirra mun það tíðkast að fólk verði að greiða 5-10 þús. kr. mánaðargjald fyrir að fá að vera á skrá, hvort sem þeim er útvegað húsnæði eða ekki. Það heyrir til sögunni, að þessar miðstöðvar þjónusta ekki þá sem eru að leita sér að húsnæði, hringja t.d. aldrei til þeirra sem eru á skrá, þótt húsnæði komi inn. Þeir sem ætla að fá eitthvað út úr starfsemi þessarra miðstöðva verða því að vera síhringjandi í þær til að fylgjast með, hvort eitthvað komi inn af húsnæði sem þeim passar.



Leigumiðlunin
í Hafnarstræti 16, 1. hæð. Vantar á skrá fjöldann allan af 1—6 herb. íbúðum og skrifstofuhúsnæði. Fyrirframgreiðslu, reglusemi og góðri ... heitið. Opið alla daga, nema ... frá kl. 9 til 18. Uppl. í síma ...

Húseigendur
Höfum á sk... eftir 2ja. Góðri ... heitið og ...

Ertu í húsnæðisvandræð...
Ef svo er, þá láttu skrásen... gildir þar til h... Leigumiðlunin H... að Hamraborg 10, Kópavogi, sími 43689. Daglegur viðtalstími frá kl. 1—6 e.h. en á fimmtudögum frá kl. 3—7. Lokað um helgar.

Það væri verkefni fyrir Leigjendasamtökin að reyna að leggja þessa starfsemi að velli. T.d. mætti athuga, hvort slík okurstarfsemi brjóti ekki í bága við lög. Hugsanlega gæti komið til greina að krefjast þess að skrifstofur þessar verði bannaðar, en einhverjum opinberum eða hálfopinberum aðila (t.d. Leigjendasamtökunum) falið að reka slíka miðlun sem þjónustu við fólk sem er að leita sér að húsnæði með hagsmuni leigjendanna fyrir augum.

Einn sem er að leita sér að húsnæði.

# Fylkingin sækir fram ! -innan verkalýðsforystunnar

Björn Arnórsson fyrrverandi formaður Fylkingarinnar var fyrir skömmu ráðinn í embætti fræðslustjóra BSRB. Björn hefur starfað í nokkur ár sem starfsmaður Starfsmannafélags ríkisstofnanna eins stærsta félags BSRB og mun einnig hafa unnið að ákveðnum verkefnum fyrir BSRB.

Það virðist ljóst að Björn hefur lengi stefnt að því að ná metorðum þarna innan BSRB. Má álykta að svokölluð "úrsögn" hans úr Fylkingunni standi einmitt í sambandi við það streð hans. Forystumönnum BSRB hefur varla litist á að ráða í svo veigamikið embætti neins konar "byltingarsinna". Hins vegar eru ungir Alþýðubandalagsmenn þar væntanlega betur séðir. Voru hæg heimatökin fyrir Björn að söðla um þar sem hann hefur verið starfandi bæði með Alþýðubandalaginu og Fylkingunni sem skráður félagi í báðum samtökunum. Þegar valið hefur síðan staðið um hærra metorðastig innan verkalýðsforystunnar eða áframhaldandi formannsstörf í Fylkingunni virðist valið hafa verið auðvelt.

Það er engin tilviljun eða stefnubreyting sem veldur því að trotskíistar sækja það fast að koma ár sinni fyrir borð innan verkalýðsforystunnar. Það er aðeins afleiðing pólitískra viðhorfa þeirra. Þeir líta ekki á stéttasamvinnustefnuna sem afleiðingu svika forystu verkalýðshreyfingarinnar við málstað verkalýðsins, heldur hafi þróun "þjóðfélagsskilyrða" og "stéttarvitundar" dæmt pólitíska forystu verkalýðsins til stéttasamvinnu. Þess vegna sjá trotskíistar ekkert því til fyrirstöðu að þjóna forystunni.

Þetta dæmi af Birni Arnórssyni sýnir okkur ennþá einu sinni að Fylkingin og trotskíisminn er enginn valkostur fyrir vinnandi alþýðu, heldur þvert á móti svika- og skemmdarverkaafl.

## Samtíningur

STÉTTABARÁTTAN...

heldur okkur við efnið. Forsíða 27.tbl. innihélt mjög sérkennilega lýsingu á kosningabaráttu Alþýðuflokksins og Alþýðubandalagsins. Gefum Stéttabaráttunni orðið: "Þessir flokkar, hver á sinn hátt, lögðu höfuðáherslu á að draga fram í dagsljósið spillingu auðsafnarans, valdníðslu ríkisvaldsins og yfirleitt það fjölmarga sem sýnir fram á að arðránskerfi íslenska kapitalismans er ófært um að tryggja lífsafkomu verkafólks vegna gróðaþorsta atvinnurekenda. Engan skal furða að þessi óttalausa afhjúpun þeirra á kapitalismanum hafi náð tökum á fjölmörgum..."

Við hin sem fylgdumst með kosningabrölti téðra flokka sáum ekkert nema gylliboð um betrumbættan kapitalisma, þessi "óttalausa afhjúpun" fór alveg fyrir ofan garð og neðan.

# Sumarráðstefna SÍNE 29. júlí

Skv. lögum Sambands íslenskra námsmanna erlendis á að halda sumarráðstefnu SÍNE helgina fyrir verslunarmannahelgi hvert ár. Hlutverk ráðstefnunnar er að þar fara fram stjórnarskipti, kosnir eru fulltrúar SÍNE í stjórn LÍN og ÆSÍ, auk þess gefur stjórn skýrslu o.fl. í þeim dúr. Þá má reikna með að umræður fari þar fram um hagsmunamál námsmanna.

Tíðindamaður Vbl. hafði samband við skrifstofu SÍNE og fékk staðfest að ráðgert væri að halda sumarráðstefnuna laugardaginn 29.júlí eftir hádegi í Félagsstofnun stúdenta, og líklega stæði hún aðeins í einn dag, en ekki tvo eins og oftast nær áður.

Vorfundaratkvæðagreiðslum í SÍNE er lokið og talning hefur farið fram. Í þetta sinn var ekki kosið um stjórn, fráfarandi stjórn varð sjálfkjörin. Endurskoðendur voru kosnir tveir endurskoðunarsinnar, Ragnar Árnason og Mörður Árnason, en í kosningunni féllu Björn Birgir, Guðmundur Sæmundsson, Hreinn Hjartarson og Kristinn Einarsson.

Allar framkomnar tillögur um lagabreytingar og árgjöld, sem og skýrsla stjórnar og reikningar, voru samþykktar.

Þrjár stefnuyfirlýsingartillögur voru felldar, þar á meðal sú merkasta sem tók grundvallarafstöðu gegn vísitölubindingu námslána. Hún var felld með 72 atkv. en 51 voru fylgjandi. Samþykkt var tillaga ýmissa baráttusinna um baráttuaðferðir.

Af átta ályktunartillögum voru fimm samþykktar. Það voru tillaga endurskoðunarsinna í stjórn SÍNE um frelsi til náms, og svigrúm til gagnrýnis náms, - tillaga sömu aðila um að aðalkrafa námsmanna varðandi endurgreiðslur skyldi vera " engar endurgreiðslur á þurftarlaun " - og auk þess þrjár tillögur Guðmundar Sæmundssonar um skólalýðræði o.fl. , um kjararánslögin og um gengisfellinguna í vetur. Felldar voru tillaga um samstöðu með verkalýð og tillaga um að framkvæmd yrði atkvæðagreiðsla um að leggja SÍNE niður. Í vorfundakosningum tóku þátt 135 manns, eða um 10% félaga, sem líklega er minna hlutfall en nokkru sinni áður.

Meginniðurstaða þessara vorfundakosninga var sú, að allar tillögur endurskoðunarsinnanna í stjórn SÍNE voru samþykktar, en aðeins "hættulausustu" tillögur baráttusinna. Allar tillögur fylgjenda KFML(r) í Gautaborg voru felldar. Troskíistar og náskyldir endurskoðunarsinnar hafa því enn hert tök sín á SÍNE.

Starf stjórnar SÍNE á síðastliðnu misseri hefur verið heldur klént að flestra áliti, t.d. hefur ekkert SÍNE- blað komið út síðan löngu fyrir vorfundi. Mun það vera vegna framúrskarandi lélegs starfs núverandi ritara stjórnar SÍNE og ritstjóra SÍNE-blaðsins, Árna Sverrissonar, Fylkingartrotta. Þetta er mikill skaði. Baráttusinnar í fyrrverandi stjórn SÍNE höfðu byggt upp með ærnu erfiði ágætan umræðuvettvang um hagsmunamál námsmanna, en með skemmdarverkastarfi sínu hefur nú trottum tekist að eyðileggja það.

Verkalýðsblaðið hvetur námsmenn erlendis, sem staddir eru á Íslandi í sumar, til að mæta á sumarráðstefnu SÍNE og reyna að afstýra því að eyðileggingarstarf trotta verði ríkjandi þar, sem annars staðar í námsmannahreyfingunni um þessar mundir.

Fréttaritari í SÍNE.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Eimskip:
# Sigurinn var ekki í höfn

Í síðasta tbl. var sagt frá kjaradeilu sem hafnarverkamenn Eimskip í Reykjavík hafa háð að undanförnu, en af greininni mátti skilja að henni hafi verið lokið með fullum sigri verkamanna þegar fréttin var skrifuð. Svo var ekki. Undirritaðir duttu nefnilega í þá gryfju að taka Guðmund J. varaformann Dagsbrúnar, trúanlegan, þegar hann þóttist hafa gengið frá samkomulagi fyrir hönd verkamanna. Það kom bara á daginn að ýmsir endar voru lausir á "samkomulaginu" og kjaradeilan hélt því áfram.

Málavextir voru þeir að Dagsbrúnarforystan samdi fyrir 3 árum við Eimskip-forstjóra um að kaffitíminn kl. 15.3o var lagður niður ( til að betur gengi að afgreiða varning til heildsalanna !), auk þess sem menn þurftu að mæta fyrr til vinnu á morgnanna í Sundahöfn. Fyrir þetta fékkst 8% kauphækkun og önnur 8% ef verkamenn fóru á sérstakt námskeið. Naumur meirihluti verkamanna samþykkti þessa breytingu á sínum tíma.

Með kaupránslögunum í febr. var klipið af þessum 16% umsömdum kaupauka og með síðari kjaraskerðingarlögunum, þar sem dálitlu af kjaraskerðingunni var skilað aftur, greip stjórn Eimskips til þess ráðs að borga aðeins hálfar verðbætur á 16% kaupaukann. Þetta uppgötvuðu verkamenn og fóru í hart. Guðmundur J.var kallaður til og reyndi að lægja ófriðaröldur og "halda friðinn" (fyrir Eimskip-forstjórana), en verkamenn kröfðust réttar síns undanbragðalaust. Guðmundur J. makkaði við forstjórana og kom síðan á fund við verkamenn og sagði málið í höfn: Eimskip féllist á að borga kaupaukann, en hann sagði jafnframt að "svolítill áreiningur hefði verið um útreikninginn á honum, en það væri ekkert mál". Síðar kom í ljós að meira en lítill endi var laus, því næsta útborgunardag bólaði ekkert á fullum kaupauka og kom í ljós að munað gat allt að 12oo kr. á viku ef hann var ekki greiddur að fullu.

Þegar í ljós kom að umsamda viðbótargreiðslu vantaði á útborgunardegi, fimmtud. 6.júlí, var ljóst að loforð Eimskip-forstjóranna höfðu verið gersamlega svikin og "samningur" Guðmundar J. stóðst ekki. Strax næsta morgunn voru menn ákveðnir í að sækja rétt sinn og taka upp aðgerðir líkt og í vikunni áður:

Tóku upp gamla kaffitímann kl. 15.3o og gamla mætingartímann í Sundahöfn, auk þess sem lengri matartími var tekinn (eins og áður tíðkaðist hjá Eimskip). Engin yfirvinna var unnin. Þessar aðgerðir stóðu í 3 daga, og höfðu menn að engu nöldur Óttars Möllers forstjóra, um "vinnufrið". Miðvikudaginn 12.júlí kvisaðist út um vinnustaðinn að Eðvarð Sigurðsson og Eimskip-forstjórar hafi undirritað samkomulag sem sagt var fullur sigur. Var þá hætt aðgerðum,en þegar þetta er skrifað er ekki ljóst hvort raunverulegur sigur hafi verið unninn, eða hvort síðari samningar Dagsbrúnar og Eimskip hafi verið jafn haldlausir og hinir fyrri. Sjá annars mat á Eimskip-málinu á öðrum stað í blaðinu.

Fréttaritari/Eimskip.

# Góð heimsókn í Faxaskála



Meðfylgjandi mynd sendu fréttaritarar Vbl. hjá Eimskip blaðinu, en hún er tekin í morgunkaffi verkamanna í Faxaskála föstudagsmorgun einn í júlí. Þá kom Nafnlausi sönghópurinn í heimsókn og hélt uppi hressilegum söng og hljóðfæraslætti á meðan á kaffitímanum stóð. Að sögn fréttaritaranna vakti heimsóknin mikla athygli og umtal dagana á eftir og söngfólkið fékk hinar ágætustu viðtökur. Í hádeginu sama dag söng hópurinn í matsal verkamanna Eimskip í Sundahöfn. Síðar fór Nafnlausi sönghópurinn í heimsókn til verkafólks hjá Bæjarútgerð Reykjavíkur og hefur ef til vill fleira á prjónunum.

Nafnlausi sönghópurinn er stofnaður af fólki úr Kór Alþýðumenningar og hann flytur ný og gömul baráttulög og ljóð, eftir innlenda og erlenda höfunda. Hann kom fyrst fram 1.maí í Reykjavík, einnig kom hann fram á tónleikum í Félagsstofnun stúdenta, söng á samkomum á menningardögum "Maðurinn og hafið" í Vestmannaeyjum um mánaðarmótin júní/júlí og heimsótti verkafólk í frystihúsum í Eyjum. Innihald og form þess sem Nafnlausi sönghópurinn flytur er kjarngott innlegg í baráttu verkafólks fyrir bættum kjörum og réttindum, gegn heimsvaldastefnu og hvers kyns afturhaldi, fyrir sósíalisma. Gerum alþýðumenninguna að beittu vopni í baráttunni! Góðar kveðju fylgja til Nafnlausa sönghópsins frá Höfninni!

Mynd&texti: fréttaritarar/Eimskip.

## Eimskip-deilan:
# Forystuna skortir

Margvíslega lærdóma um almenna kjarabaráttu má draga af deilu hafnarverkamanna hjá Eimskip. Hér skal aðeins nefnt það helsta.

Kjarabarátta krefst samhæfðrar forystu reyndustu og baráttufúsustu félaganna úr hópi verkamannanna sjálfra. Aðgerðirnar hjá Eimskip höfðu ekki samhæfða forystu og veikti það baráttuna mjög. Strax og ljóst varð að brotið hafði verið á verkamönnum bar trúnaðarmönnum Dagsbrúnar að kalla verkamenn saman til fundar, bæði í Faxaskála og í Sundahöfn, skýra frá málavöxtum á tæmandi og ljósan hátt og fá fram vilja verkamanna. Síðan að láta kjósa nefnd manna af báðum stöðum til að stjórna aðgerðum og vera vakandi fyrir því að samningar Dagsbrúnar við Eimskip væru í fullu samræmi við vilja verkamanna. Umfram allt að afhenda ekki forystu Dagsbrúnar sjálfdæmi í málinu og láta hana afskiptalausa með baktjaldamakk við Eimskip-forstjórana.

Þrátt fyrir forystuleysi aðgerðanna og þrátt fyrir að talsvert skipulagsleysi ríkti í framkvæmd aðgerða á milli einstakra vinnustaða á Eimskip-svæðinu, að þá tókust aðgerðirnar ótrúlega vel.

Er það fyrst og fremst að þakka gamalgrónum og traustum baráttuhefðum hafnarverkamanna, sem eiga rætur að rekja allt til kreppuáranna, þegar Kommúnistaflokkur Íslands leiddi einna hörðustu stéttaátök ísl. verkalýðssögu. Verkamenn ræddu saman í minni hópum og fullvissuðu sig um nauðsyn og réttmæti baráttu sinnar. Úrtölumenn voru fáir og fremur hljóðlátir.

Hafnarverkamenn í Reykjavík eru stéttvísir og baráttufúsir og hafa löngum verið brimbrjótar í stéttaátökum umdanfarin ár og áratugi. Þá hefur ekki þurft að hvetja til að sækja rétt sinn. Áður fyrr var Dagsbrún þeirra höfuðafl til að sækja þennan rétt, en það kemur æ betur í ljós í einstaka báráttumálum svo og aðalkjarasamningum, að raðir stéttarandstæðingsins ná inn í þeirra eigin stéttarfélag. Forysta Dagsbrúnar er ekki lengur þeirra skjöldur heldur er höfuðhlið starfs hennar það að afvegaleiða sjálfsprottna baráttu verkamanna, semja hagstætt fyrir atvinnurekendur, stunda baktjaldamakk við auðvaldið á kostnað verkamanna o.s.frv. Eðvarð hefur að aðalstarfi að stýra arðránskerfi borgarastéttarinnar með setu sinni á þingi og í nefndum og ráðum, og Guðmundur J. lítur á það sem sitt höfuðverkefni að gagnast Óttari Möller og öðrum auðherrum. Þessari staðreynd er erfitt að kyngja fyrir marga gamla baráttumenn sem muna "Edda" í gamla daga, en svona er það nú samt. Eðvarð er orðinn borgari, Guðmundur er uppkeyptur og skrifræði Dagsbrúnar þjónar í heild ekki verkamönnum, og eigin baráttu þeirra. Þessi stéttasamvinna Dagsbrúnar-forystunnar jafnt sem allrar ASÍ-forystunnar er ósættanleg við baráttuhefðir verkalýðsins og stéttasamvinnustefnunni verður að útrýma úr verkalýðshreyfingunni. Verkamenn hjá Eimskip hafa oft brennt sig á breyttu eðli forystu félagsins og segja þá gjarnan að "þeir séu orðnir eitthvað svo linir" forystumennirnir. En staðreyndin er su ao Eðvarð og Guðmundur J. eru jafn harðsnúnir baráttumenn og áður fyrr. Það sem hins vegar hefur breyst er að áður báru þeir hagsmuni verkalýðsins fyrir brjósti, en nú er þeim meira í mun að passa upp á gróða Óttars Möllers.

Fréttaritari/Eimskip.

## STOFNUM KOMMÚNISTAFLOKK FYRIR ÁRSLOK 1979!



Göngum til verka  
stofnum hinn sterka  
stórhuga verkalýðsflokk !  
Látum ei kúgun  
þreytu og þrúgun  
þjaka,en stígum á stokk !  
Dóttir og sonur  
karlar og konur  
komum og sækjum þann rétt  
því okkar er gefinn  
hreystin og hnefinn  
hetjur úr öreigastétt !

(Það vantar lag við þennan ágæta texta. Lagasmiðir, látið hendur standa fram úr ermum - semjið lag við þennan texta fyrir SUMARBÚÐIR VERKALÝÐSBLAÐSINS ! - Ritnefnd. )

# SMÁ...

Nei í Reykjavík..

Í 11.tbl.Verkalýðsblaðsins var þess getið að Alþýðubandalagið á Akureyri hefði neitað áskorun EIK(m -l) um kosningaumræður.

Í Reykjavík snérist "flokkur launafólks" til jafn frækilegrar varnar og norðan heiða. Reykjavíkurdeild EIK(m-l) sendi AB í Reykjavík boð til fundar sem samtökin héldu 14.júní sl. Skyldi AB fá jafn langan ræðutíma og EIK(m-l), en menningarefni milli framsögu og umræðna hafði EIK(m-l) skipulagt - enda um kosningafund EIK(m-l) að ræða.

Ekkert svar barst frá AB, en í símtali sagði Guðmundur Ólafsson á skrifstofu AB að sér þætti líklegt að boðinu yrði hafnað vegna þess að flytja ætti efni óskylt flokknum á fundinum!

Svo AB í Reykjavík sleppi ekki úr herkvínni mun flokknum gert tilboð eftir kosningar um kappræður við kommúnista, sem hann getur ekki hafnað - nema að verða að enn meira athlægi en orðið er.



## Akureyri:
# Sigur í „sjoppumáli"

"Sjoppumálinu" svonefndu á Akureyri er lokið með sigri verkafólks, en atvinnurekendur gáfu sig eftir að Félag verslunar- og skrifstofufólks á Akureyri hafði boðað verkfall í nokkrum sælgætis- og kvöldsölum þriðjudaginn 1o.júlí. Vbl. sagði lítillega frá máli þessu á forsíðu 1o tbl. 1978, en það varðar starfsfólk í þremur Esso-stöðvum, sem "Kennedy-bræðurnir" á Akureyri eiga, en einnig koma við sögu 2 aðrar kvöldsölur.

Fólkinu var greitt kaup samkvæmt taxta sem nálgaðist eftirvinnutaxta, en engar næturvinnugreiðslur tíðkuðust. Þannig hafði fólkið verið svikið um tugþúsundir kr. af lögboðnu árskaupi. Vbl. á Akureyri fékk þær upplýsingar hjá starfsfólki sem hlut átti að máli að seinagangur hefði verið hjá stéttarfélagi þess að fá leiðréttingu á málunum, en staðið hefur í þrefi um þetta lengi. Atvinnurekendur brutu þarna kjarasamninga tvímælalaust, raunar þóttust sumir þeirra ekki hafa haft hugmynd um að svo gæti verið (!) en flýttu sér samt ekki að kippa hlutunum í liðinn. Þurfti verkfallshótun til og hún dugði. Sem sagt: Sigur í sjoppumálinu á Akureyri og blaðið sendir verkafólkinu

Fréttaritari/Akureyri

## Sendinefnd EIK(m-l) komin heim frá Kína

# Sósíaliska byltingin hefur skapað lífshamingju fyrir 800 milljónir Kínverja

Í júlíbyrjun kom sendinefnd EIK(m-l) heim úr ferð sinni til Alþýðulýðveldisins Kína. Sendinefndin var rúmar þrjár vikur í heimsókninni og ferðaðist víða um í Kína. Verkalýðsblaðið ræddi um ferðina við Albert Einarsson ritstjóra, en hann var einn sendinefndarmanna. Formaður sendinefndarinnar var Sumarliði Ísleifsson varaformaður EIK(m-l).

– Þið ferðust víða um í Kína ?

– Já, við notuðum rúmar tvær vikur til ferðalaga innan Kína, en sáum þó aðeins brot af landinu. Við ákváðum að ferðast um norðurhéruðin, bæði vegna þess að þar er sósíalíska iðnaðaruppbyggingin langt komin og einnig vegna hitans suðurfrá. Það er engin leið að ferðast um allt landið á svo stuttum tíma sem við höfðum til umráða. Við ferðuðumst bæði með flugvélum og lestum og kynntumst frábærri þjónustu kínverja við ferðalanga. Í þeim borgum sem við dvöldum skoðuðum við verksmiðjur, alþýðukommúnur, skóla, barnaheimili, söfn og sýningar, heimili verkalýðs og landbúnaðarverkalýðs o.m.fl.

– Til hvaða borga komuð þið?

– Við dvöldum fyrst í Peking og héldum þaðan til hafnarborgarinnar Dairen. Þar er mikill málmiðnaður og niðursuðuiðnaður. Þaðan fórum við með lest til borgarinnar Shenyang og eftir dvöl þar flugum við til Harbin, sem er höfuðborgin í nyrsta héraðinu í Kína, Heilungkíang. Það hérað á löng landamæri að Sovétríkjunum. Í Shenyang skoðuðum við safnsýningu sem greindi frá sögu landamæranna að Rússlandi. Sú sýning sýndi það vel, með miklu magni heimilda, að núverandi landamæri eru alls ekki þau réttu, heldur eru þau sett af Rússneska keisurunum, er herir þeirra hernámu stóra hluta af Kína. Þá voru Kínverjar neyddir til að undirrita nauðungarsáttmála, sem gaf Rússum eftir stór landsvæði. Strax eftir byltinguna í Rússlandi 1917, lýsti byltingarstjórnin með Lenín í forystu því yfir að allir nauðungarsamningar keisaranna væru fallnir úr gildi. Sovéskar alfræðiorðabækur og önnur skjöl staðfesta þetta. Alfræðiorðabókin segir landamærin vera á röngum stað. Þessu var ekki náðar elegið föstu, þar sem vinátta ríkti á milli Kína og Sovétríkjanna á meðan þau voru sósíalísk. Eftir að Krúsjoff-klíkan náði völdum í Sovétríkjunum dró hún fram gamla keisarasáttmálann og krafðist þess að Kínverjar viðurkenndu landamærin eins og hann kvað á um. Með þessu stela Sovétríkin nú landsvæði, eða svæði sem er á stærð við fjögur Frakklönd. Rússar viðurkenna heldur engar alþjóðlegar reglur eða venjur í sambandi við uppdrátt landamæra og hegða sér eins og böðlar við þjóðir þær sem byggja hertekna svæðið.

Nú, frá Harbin héldum við til Taching-olíusvæðisins. Þetta svæði á sér stórkostlega sögu, þó það sé ekki eldra en frá árinu 1960. Erlendir sérfræðingar, fyrst og fremst sovéskir, voru búnir að slá því föstu að í Kína findist engin olía að ráði. 1958 kölluðu Sovétríkin heim alla sérfræðinga sína og tóku þeir með sér allar teikningar og vísindatæki. Þannig ætluðu Rússar að brjóta niður sósíalísku uppbygginguna í Kína og færa Kína hundruð ára aftur í tímann. Olía er eitt af lykilatriðunum í iðnaðaruppbyggingunni, en hana höfðu Kínverjar þurft að kaupa af Rússum. Kínverskir vísindamenn settu í gang leitarherferð eftir olíu og fundu olíusvæði í Heilungkíang. Fyrstu borhóparnir komu þangað í febrúar 1960 og í september gaus fyrsti olíubrunnurinn. Þá var svæðið skýrt Taching, en það þýðir mikil hátíð. Þegar fyrstu hóparnir komu til Taching var ekkert fyrir annað en sléttan, ræktarlaus. Nú 18 árum síðar búa í Taching um 600 þús. manna og þar er risinn blómlegur iðnaður, mikil ræktun og gróðursett hafa verið milljónir trjáa, þannig að mönnum virðist allt þarna vera skógi vaxið. Kína er nú sjálfu sér nægt með olíu og flytur auk þess út nokkuð magn. Fyrir 1985 ætla Kínverjar að vera búnir að byggja 10 olíusvæði af Taching gerðinni, svo eitthvað virðast vísindi erlendu sérfræðinganna hafa verið andstæð Kínverjum.

Frá Taching héldum við með lest til Peking, en það er um 17 klst. ferð. Í þeirri leið gafst okkur gott tækifæri til að skoða landið og þá óskaplegu ræktun sem allstaðar er einkennandi. Nýtni á landi er svo mikil að einum félaganum varð að orði þegar við sátum við gluggann og veifuðum til fólks sem vann á akri fast við járnbrautarteinana, að eini staðurinn sem ekki væri ræktaður væri rúmið milli teinanna.

Þegar við komum til Peking stigum við fljótt um borð í flugvél og héldum til Shanghai. Þar dvöldum við í nokkra daga og héldum á ný til Peking. Verkalýðsblaðið mun síðar greina nánar frá heimsóknum í einstaka borgir og vinnustaði, en raunar er frásaga af öllum þeim frábæru heimsóknum efni í bækur, en við munum gera okkar besta til að koma sem flestu til skila í greinum hér í blaðinu.



Albert Einarsson, ritstjóri Verkalýðsblaðsins. (VB-mynd)

– Hverju veitir maður helst athygli þegar maður kemur frá auðvaldslandinu Íslandi til sósíalíska landsins Kína, svona í fljótu bragði?

– Það er auðvitað margt sem keppir um athyglina. Þó er e.t.v. tvennt sem mér fannst einkennandi. Í fyrsta lagi er það greinilegt að Kína er þróunarland og atvinnuvegirnir misþróaðir og í öðru lagi að þrátt fyrir þetta skín almenn lífsánægja af fólki. Þetta sýndi mér svo sannarlega að lífsánægjan er alls ekki fengin með ríkidæmi, gulli og gersemum, heldur er hún fólgin í því að öll alþýðan er sér 100% vitandi um stöðu sína og hlutverk og að samfélagsskipulagið er í hennar þjónustu, en ekki til byrði og undirokunar. Sem dæmi get ég nefnt að þrátt fyrir að Kína sé þróunarland þá vinnur engin lengri vinnudag en 8 stunda, og að fyrir þá vinnu eru borguð laun sem fyllilega nægja til lífsframfærslu. Flestar fjölskyldur spara, enda óhætt því það er engin verðbólga í Kína. Ef um einhverjar verðbreytingar er að ræða þá er þróunin sú að vöruverð lækkar en kaupið hækkar. Þessa sögu er ekki hægt að segja frá öðrum þróunarlöndum og enn síður frá þeim auðvaldslöndum, þar sem verðbólga er eitt eilífðarvandamál, en um leið arðránskvörn fyrir auðvaldið.

Almennt sagt þá er það sem maður veitir athygli fyrst, að sósíalíska byltingin hefur skapað lífshamingju fyrir allar þær rúmu 800 milljónir kínverja sem nú taka daglegan þátt í að byggja upp fullkomið iðnaðarsamfélag. Getur maður krafist meira? Er ekki eimitt baráttan fyrir sósíalismanum barátta fyrir því að varpa oki og arðráni auðvaldskerfisins af alþýðunni, frelsa hana og skapa samfélag þar sem lífshamingjan er í fyrirrúmi fyrir öllu.

– Nú höfum við heyrt í fréttum að viðsjár eru milli Kína og Víetnam. Getur þú sagt eitthvað um þetta?

– Kína studdi Víetnam alla þá tíð er Víetnam barðist gegn erlendri innrás heimsvaldastefnu. Það var á meðan Víetnam barðist gegn frönsku nýlendusinnunum og gegn japönsku innrásarseggjunum og Kína studdi Víetnam gegn morðárásum bandarísku heimsvaldastefnunnar. Kína studdi Víetnam við að endurreisa landið úr rústum stríðsins. Áður fyrr kom það oft fyrir að Kínverjar hertu að sér ólina til að geta komið stríðandi þjóð víetnama til hjálpar. Kínverjar hafa aldrei krafist eins eða neins í endurgjald fyrir aðstoðina, né heldur hafa þeir notað hana til að ná ítökum í Víetnam. Víetnamar köstuðu bandarísku heimsvaldastefnunni [illegible] og b[illegible] hetjulegri baráttu, sem er fordæmi fyrir allar undirokaðar þjóðir. Það sem nú gerist er hins vegar ekki fordæmi heldur hörmulegir atburðir. Ráðamenn í Víetnam láta Sovésku stríðsherrana í Kreml stýra gerðum sínum. Víetnam er orðið ríki undir járnhæl sovésku heimsvaldastefnunnar. Hjá ráðamönnum í Víetnam ríkir and-kínversk afstaða í svo miklum mæli að hún er í engu frábrugðin kynþáttafordómum nasista. Fólk af kínversku bergi í Víetnam er ofsótt og það hrakið úr landi, svift öllum eigum sínum og jafnvel algerlega hindrað í því að sjá sér og sínum farborða. Nú eru um 150 þúsund flóttamenn **komnir til Kína og margir illa farnir** eftir misþyrmingar Víetnama. Þeir kínversku sérfræðingar og tæknimenn sem störfuðu við mannvirkjagerð í Víetnam, sem var einn liður í aðstoð Kína við Víetnam voru hindraðir í störfum sínum, svo að það er alls ekki óeðlilegt að Kína skuli hafa hætt allri aðstoð við land þar sem afstaða ráðamanna er þannig til þeirra sem aðstoðina veitir. Við höfum aðeins dæmi um að Kína komi friðsamlega fram við aðrar þjóðir og engin dæmi um að kínverjar reyni að ota sínum tota með því að bjóða aðstoð. Slíkt er grundvallarlega andstætt alþjóðahyggju öreiganna og þar með allri utanríkisstefnu sósíalísk ríkis, eins og Kína.

– Er hætta á stríði þarna á milli?

– Það er undir Víetnam komið og raunar frekar þeim sem spila fyrstu fiðlu í stríðsæsingadansinum í SA-Asíu, sósíalheimsvaldasinnunum. Ég held að það verði ekki stríð þarna á landamærunum en gæti engu að síður komið til átaka. Markmið Sovétríkjanna er að umlykja Kína herstöðvum og reyna að espa Kínverja. E.t.v. verður næsta skref Rússa það að taka við hlutverki Bandaríkjanna á Taiwan, en milli fasistastjórnarinnar þar og Rússa er að skapast viss vinátta m.a. í gegnum Víetnam. Kínverjar láta samt ekki espa sig til stríðs, en þeir munu verja landið sitt árásum og eru vel undir það búnir.

– Er mikill stríðsundirbúningur í Kína?

– Nei, en hins vegar er mikill varnarundirbúningur og er öll þjóðin þátttakandi í þeim undirbúningi. Kínverjar ganga ekki um með bundið fyrir augun varðandi ástandið í heiminum. Þeir sjá að risaveldin undirbúa stríð um allan heim. Kínverjar munu verja landið sitt í því stríði og undirbúa sig undir það. Kína byggir ekki upp árásarher, heldur vopnar alþýðuna bæði vopnum og fræðum alþýðuherlistar. Á þessari öld hafa Kínverjar háð áratuga alþýðustríð gegn innrásarherliði og afturhaldsöflum undir ósveigjanlegri forystu Maós Tsetungs formanns. Í ritum hans er reynsla þessara stríða dregin saman og þau eru mikið numin af alþýðunni nú sem fyrr. Í ferð okkar skoðuðum við margvísleg varnarmannvirki. Við urðum margs fróðari um almenna þátttöku verkalýðs í borgum og sveit í vörnum sósíalíska landsins síns. Kínversk alþýða hefur orð Maós Tsetungs formanns um að grafa göngin djúpt, geyma kornið allsstaðar og sækjast aldrei eftir drottnunaraðstöðu að leiðarljósi í undirbúningi varnanna.

– Eru valdaátök í Kína?

– Kína er sósíalískt samfélag en það þýðir að stéttaandstæður eru ennþá við líði. Þetta þýðir að ennþá berjast hugmyndir borgarastéttar og hugmyndir öreigastéttar um völdin. Þetta kemur svo fram í því að átök eru alltaf um stefnuna í uppbyggingunni. Öðruvísi getur þjóðfélagið ekki þróast. Það nægir að nefna baráttuna gegn Líú Sjaú-sí, Lín Píaó og nú síðast fjórmenningaklíkan sem dæmi um alvarlegar tilraunir borgaralegra afla til að steypa alræði öreiganna. Síðasta tilraunin var hættulegust. Kommúnistaflokknum undir forystu félaga Húa Kúo-feng tókst að rústa lið fjórmenningaklíkunnar haustið 1976, en þá hafði það grafið um sig mjög víða. Framleiðslan gekk erfiðar og mikil hnignun varð í sósíalísku uppbyggingunni á meðan "fjórmenningaklíkan" lék lausum hala. 1977 varð aftur stökkbreyting í sósíalísku uppbyggingunni. Nú í ár eru Kínverjar að hefja nýja "langa göngu" og ætla að byggja hröðum skrefum sósíalískt iðnaðarstórveldi á komandi áratugum. Þetta verður afgerandi áfangi á leiðinni að hinu stéttlausa samfélagi kommúnismans sem stefnt er að í Kína.

Í næstu blöðum mun Verkalýðsblaðið birta frásagnir og greinar um ferð sendinefndar EIK(m-l) til Kína. Lesendur mega gjarnan senda blaðinu línu og koma með spurningar til sendinefndarinnar um þau atriði sem liggja á hjarta.





Við Torg hins himneska friðar í Peking standa risastórar myndir af frumkvöðlum sósíalismans. Hér sjást myndir af Lenín og Stalín, en á móti standa myndir af Marx og Engels. (Mynd: Verkalýðsblaðið)





Úr fiskiðjuveri í Shanghai. (Mynd: Verkalýðsblaðið)



Frá barnaheimili í Shanghai. (Mynd: Verkalýðsblaðið)

# Verkfall í unglingavinnunni

Á hverju ári vinnur fjöldi unglinga á aldrinum 13–15 ára hjá Reykjavíkurborg í júní og júlímánuði. Í þeirra verkahring fellur fyrst og fremst snyrting á umhverfi svo og umhirðing á gróðursvæði borgarinnar. Unglingarnir vinna þörf og nýt störf sem engin ástæða er til að meta minna en önnur störf sem jafnaldrar þeirra inna af hendi, við annað. Reykjavíkurborg hefur löngum borgað unglingunum langt undir því sem aðrir atvinnurekendur greiða.

Fimmtudaginn 13.júlí gerðu þeir því verkfall og gengu fylktu liði niður í bæ á fund þeirra Sigurjóns og Guðrúnar Helgadóttur. Helstu kröfur sem bornar voru uppi í göngunni voru: Fulla vinnu í ágúst, yngrideildinni verði 8 stunda vinnudagur og loks var þess krafist að launin yrðu hækkuð til jafns við það sem greitt er í Kópavogi. Í Reykjavík eru launin nú 305 kr. á tímann fyrir þá yngri (13 ára) en 345 fyrir þá eldri. Samsvarandi laun í Kópavogi eru 500 og 540 kr. á tímann.

Tíðindamaður Verkalýðsblaðsins tók nokkra verkfallsmenn tali er gangan hafði staðnæmst fyrir utan borgarskrifstofurnar við Austurvöll. Mikill hugur var í fólki og sagðist það tilbúið til að fara út í lengra verkfall ef með þyrfti. Um samstöðuna sögðu unglingarnir að hún hefði frá upphafi verið allgóð en þó hefðu nokkrir guggnað þegar á reyndi. Sumir hefðu guggnað vegna mikillar andstöðu foreldra við slíkar aðgerðir, en aðrir þegar Helga yfirverkstjóri fór hamförum. Beitti hún að sögn þeirra hinum margvíslegustu aðferðum til að telja þeim hughvarf. Bauð hún m.a. að greiða sérhverjum þeim sem ynni verkfallsdaginn tvo tíma aukalega úr digrum sjóðum Reykjavíkurborgar. Auk þess hélt hún langar tölur um að slíkar aðgerðir þýddu ekkert, en ef svo ólíklega vildi til að þau fengju launahækkun fengju hana allir hvort sem þeir hefðu farið í verkfall eða ekki.

Er ekki nokkur vafi á því að borgaryfirvöld og íslensk borgarastétt verða ánægð með þennan dygga þjón sinn og munu eflaust að lokum veita henni fálkaorðu að launum fyrir vel unnin störf að æskulýðsmálum. En þeir unglingar sem tóku þátt í verkfallinu og kröfugöngunni létu hvorki mútur eða fortölur aftra sér í að berjast fyrir kjörum sínum. Árangursrík barátta unglinga í Kópavogi sýndi þeim fram á að með órofa samstöðu og baráttu má vinna sigra.

⇦

"Við viljum hærra kaup" var ein höfuðkrafa kröfugöngunnar, en þessa kröfu kallaði borgarritari "órökstudda"! En staðreyndin er auðvitað að þessar kröfur krakkanna eru fyllilega rökstuddar og réttmætar!
(Mynd: Dagblaðið)

## „Allt stuðningsstarf . . .

framhald af forsíðu

3. Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna – Bandaríkjanna og Sovétríkjanna!
4. Gegn allri heimsvaldastefnu – Ísland úr NATO – herinn burt!

– Stundum er sagt að andheimsvaldasinnar af þeirri gerð sem taka vilja upp baráttu gegn sovéskri heimsvaldastefnu gleymi gjarnan heimsvaldastefnu Bandaríkjanna. Hvað viltu segja um það ?

– Þetta er a.m.k. rangt hvað okkur varðar, eins og sjá má af kröfugrundvellinum. Hins vegar má vel minna á það að baráttan gegn sovésku heimvaldastefnunni sem slíkri er liður í baráttu andheimsvaldasinna gegn allri heimsvaldastefnu. Þeir sem þykjast styðja baráttuna fyrir frelsi Tékkóslóvakíu, en styðja t.d. aðild Íslands að NATÓ, eru ekki heilir í sinni afstöðu.

– Í hverju hefur starf ykkar í frumkvæðishópnum verið fólgið ?

– Við höfum fyrst og fremst starfað að undirbúningi stofnfundarins. Við sömdum ávarp og sendum það út m.a. til allra fjölmiðla og annarra aðila, svo sem verkalýðsfélaga. Við teljum að leita beri stuðnings við baráttu 21.ágúst-hreyfingarinnar sem víðast og hvetjum til þess að þeir sem styðja baráttumál okkar taki þau upp til umræðu og reyni að fá stuðningsyfirlýsingar og þess háttar. Nú, umboði okkar lýkur með stofnfundi, svo að við höfum ekkert gert sem hugsanlega muni grípa fram fyrir hendurnar á þeim sem stofnfundur kýs til að leiða starfið.

– En einhverjar hugmyndir og tillögur hafið þið um framhaldið?

– Jú, því er ekki að neita. Við leggjum til að hreyfingin byggist upp á hópum sem bæði stundi umræður, fræðslu og útbreiðslustarf. Fyrirkomulag aðgerðanna 21. ágúst er samfylkingarinnar að ákveða. Ýmsir möguleikar eru fyrir hendi, t.d. ganga og útifundur, eða einhverjar útiaðgerðir og innifundur. Annars hljóta áætlanir um aðgerðir 21.ágúst að vera að nokkru leyti háðar viðbrögðum og áætlunum SHA. Ég tel að við þurfum ekki að óttast að þátttaka í aðgerðunum okkar verði dræm. Aðgerðir ýmissa samfylkinga frá því fyrir ári síðan hafa aukið mjög fylgi baráttunnar gegn risaveldunum báðum, eins og við sáum best í fjölmennum og vel heppnuðum aðgerðum Baráttunefndar 1.des, 8.mars-hreyfingarinnar og Samfylkingar 1.maí. Það er von okkar og sannfæring að þessar aðgerðir 21.ágúst verði þessari baráttu enn ein lyftistöngin.

– Hvernig má hafa samband við ykkur?

– Eftir stofnfund verður hægt að auglýsa ákveðna liði, en til bráðabirgða má hafa samband við einn af félögum í frumkvæðishópnum, Arnór Sighvatsson, Dunhaga 20, sími 20807.

– Nokkuð að lokum?

– Ekki annað en það að nefndin er ekki og má ekki verða bundin neinum ákveðnum pólitískum samtökum, þótt auðvitað séu allar stuðningsyfirlýsingar og aðstoð vel þegin. Í þessari hreyfingu eiga allir að geta tekið þátt sem vilja taka þátt í andheimsvaldasinnaðri baráttu á þeim grundvelli sem við höfum sett fram, án tillits til skoðana þeirra á öðrum málum.



## Tékkaslóvakía fyrr og nú 2. grein

# „Sósíalismi " Dubceks

Í síðasta tbl. Vbl. hófum við greinaflokk um þróun mála í Tékkóslóvakíu fyrr og nú, en í ár eru sem kunnugt er liðin 10 ár frá innrás herja Varsjárbandalagsins í landið og upphafi hersetu Sovétríkjanna þar. Við röktum stuttlega helstu atburði í þjóðfélagsþróun Tékkóslóvakíu allt frá 1918 og skildum við söguþráðinn í upphafi árs 1968. Þá vék Novotny fyrir Dubcek sem leiðtogi Tékka, fyrst og fremst vegna þess að sá fyrrnefndi stóð í vegi fyrir arðvænlegri þróun auðvaldsskipulags í Tékkóslóvakíu – og um leið skynjaði hann ekki að vaxandi lýðræðishreyfing verkalýðs og menntamanna var orðin yfirstéttinni hættuleg. Því féll Novotny – að undirlagi leiðtoga Sovétríkjanna – og þeir studdu Dubcek til valda í staðinn, sem fulltrúa umbóta á auðvaldsskipulagi Tékkóslóvakíu. Og þá tökum við þráðinn upp á nýtt og stiklum á stóru um Dubcek-tímann.





### DUBCEK – SÓSÍALISTI ?

Hlutirnir gengu hratt fyrir sig snemma árs 1968, aðeins of hratt fyrir Dubcek, alltof hratt fyrir Brésjnev og Kremlarbændur. Í apríl gaf "kommúnistaflokkurinn" út stefnuskrá fyrir umbæturnar innanlands. Henni má í grófum dráttum skipta í tvennt: Annars vegar stefnuskrá að umbótum og eflingu auðvaldsskipulagsins í landinu og í öðru lagi stefnuskrá að eflingu borgaralegra lýðréttinda. Örfá atriði varðandi hið fyrrnefnda: Aukið vald til einstaka forstjóra fyrirtækja, "heilbrigð samkeppni framleiðenda", aukinn launamismunur til að örva framleiðni. Þannig var grundvöllur stefnunnar blátær auðvaldshyggja. Þegar Alþýðubandalagsfólk og aðrir Dubcek-sinnar lofa og prísa þennan "lýðræðis-sósíalisma", þá segir það meira en langar greinagerðir um hvað þeir hinir sömu meina með "sósíalisma".

Lýðréttindastefna Dubceks hljóðaði m.a. upp á eftirfarandi:

- tjáningar, prent- og fundarfrelsi
- full réttindi til handa þjóðernisminnihlutum
- full réttindi til handa utanflokksfólki til jafns við félaga flokksins
- frelsi til að ferðast erlendis og flytja búferlum frá Tékkóslóvakíu.

Þessi stefnuskrá um lýðréttindi var þvinguð fram af almenningi og lýtur vel út á prenti. En um leið og alþýðan fór að knýja á um að stefnan væri framkvæmd, þá var kverkataki Sovétríkjanna á Tékkum ógnað. Sovétríkin höfðu stutt við bakið á fasískri ógnarstjórn í Tékkóslóvakíu á dögum Novotnys, en sáu nú fram á að lýðræðishreyfingin í landinu, sem studd var af mörgum framámönnum Tékka, var bein ógnun við íhlutun þeirra og arðrán á tékknesku launafólki. Það kom nefnilega í ljós að tundur var fólgið í lýðréttindastefnuskránni, tundur sem gat valdið mikilli sprengingu í landinu ef neisti kæmist þar í: Frelsi til gagnrýni þýddi nefnilega frelsi til að gagnrýna Sovétríkin og hvetja til baráttu gegn undirokun þeirra á Tékkum. 98% tékknesku þjóðarinnar ( einnig stór hluti borgarastéttarinnar) var andvígur Sovétríkjunum og íhlutun þeirra og notuðu aukin lýðréttindi til baráttu gegn Sovétríkjunum.

Dubcek, sem alla tíð var gegnsýrður endurskoðunarsinni var ekki með á nótunum. Hann talaði um að framkvæma áætlanirnar – en samtímis að bæta samskiptin við Sovétríkin. Hann sagði m.a.s. stundum að vináttan við Sovétríkin væri grundvöllur nýju stefnunnar. Brésjnev hins vegar vissi nákvæmlega hvað klukkan sló. Hann vissi að hin nýja hreyfing Tékka ógnaði veldi Sovétríkjanna. Hann var í orði fylgjandi stefnu tékknesku forystunnar, en algerlega andvígur framkvæmd hennar. Þegar fór að bóla á framkvæmdinni tók Pravda að muldra um "and-sósíalísk öfl" í Tékkóslóvakíu. Þar með byrjaði að hreifa vind sem síðar varð mannskæður.

Einn úr hópi "and-sósíalískra afla" var L.Vaculik, sem stóð að baki "2000 orðanna" sem út kom í júní. Þetta þótti óhemju hættulegt plagg, vegna þess að í því var krafist fullra efnda á stefnu Dubcek-stjórnarinnar, af því þar var kveðið á um andstöðu við alla íhlutun "erlendra afla" (!) og af því að allur almenningur studdi innihald plaggsins.

### RAUNVERULEGT LÝÐRÆÐI ?

En aldrei varð af raungerð stefnuskrárinnar, aldrei komst á lýðræði í Tékkóslóvakíu. Langt frá því. Mótmæli urðu, einnig verkföll, án leyfis valdamanna.

Samanborið við Vestur-Þýskaland okkar tíma, þar sem lýðréttindi hafa verið skert ógnvekjandi mikið og hratt, þá var Tékkóslóvakía anno '68 mörgum þrepum neðar í lýðræðisstiganum þegar "vorið" var sem best og blíðast. Til dæmis hefði aldrei komið til greina að leyfa opinbera starfsemi marx-lenínískra kommúnistasamtaka í Tékkóslóvakíu á þessum tíma, fremur en nú. Né heldur hefði liðist að byggja upp frjálsa baráttusinnaða verkalýðshreyfingu.

Þegar talað er um "sósíalisma" og "lýðræði" í Tékkóslóvakíu vorið 1968, þá eru málshefjendur annað hvort ókunnir um raunverulega málavöxtu – eða þá að þeir eru pólitískir gosar og svindlarar. Hvenær var það t.d. "byltingarsinnað" að verkafólk og stjórn verksmiðja eigi "samvinnu" um stjórn auðvaldsreksturs? Nei, það var engin sósíalísk þróun í Tékkóslóvakíu í tíð Dubceks.

### INNRÁS UNDIRBÚIN – DUBCEK VILL EKKI SJÁ.

En þrátt fyir að lýðræðið væri lítið fyrir alþýðuna, þá var það þegar orðið alltof mikið fyrir Brésjnev. Strax í maí heyrðist orðrómur um yfirvofandi innrás Sovétríkjanna. Dubcek lést ekki heyra þetta og staglaðist stöðugt á því að Sovétríkin myndu viðurkenna sjálfstæði og sjálfræði Tékka. Því skal þó ekki haldið fram að Dubcek hafi stutt innrásina, síðari tíma frásagnir og rannsóknir hafa tekið af allan vafa um það. En hlutlægt séð plægði hann ómeðvitað jarðveginn fyrir velheppnaða innrás með því að vera sífellt að þagga niður óttaraddir fólksins.

Í júní, júlí og ágúst voru haldnar heræfingar í Tékkóslóvakíu og við landamæri þess. Eftir fund hinna endurskoðunarsinnuðu leiðtoga Austur-Evrópuríkja (án þátttöku Tékka) varð til svonefnd "Brésjnev-kenning", en kjarninn í henni var sá að þróun í einu landi innan "bandalagsins væri mál þess alls en ekki bara viðkomandi lands". Þar með var lagður hugmyndalegur grunnur að innrásinni og hersetu Tékkóslóvakíu. Þrátt fyrir þetta þagði Dubcek, vildi e.t.v. ekki trúa raunveruleikanum og valdi að þegja um gang mála gagnvart alþýðu Tékkóslóvakíu. Þess vegna kom innrásin eins og þruma úr heiðskýru lofti yfir langfesta íbúa landsins.

Í ágústbyrjun hlaðast æ fleiri óveðursský á pólitískan himinn Tékkóslóvakíu. Sovétleiðtogar krefjast fundar með leiðtogum Tékka og hann er haldinn í Bratislava í Slóvakíu. Þar leggur Brésjnev fram endanlega kröfu um tafarlausa stöðvun lýðréttindahreyfingar í Tékkóslóvakíu. Dubcek svarar fáu af eða á, en velur enn að dylja atburðina fyrir Tékkum. Og þá biðu sovésku heimsvaldasinnarnir ekki lengur boðanna og blésu í herlúðra. Innrásin varð staðreynd og herseta Sovétríkjanna hófst, – og stendur enn.

(Næst: 21.ágúst 1968).


Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu

# Víetnam - nýtt leppríki Sovétríkjanna

Hvað er að gerast í Víetnam ? spyrja eflaust margir þeirra sem fyrir aðeins örfáum árum litu á Víetnama og baráttu þeirra fyrir frelsi sem lýsandi fordæmi öllum heimi. Og vissulega var sú barátta lýsandi fordæmi, sönnun þess að leið vopnaðrar þjóðfrelsisbaráttu væri sú eina leið sem kúgaðar þjóðir þriðja heimsins geta farið. Víetnam á öðrum þjóðum meiri þátt í því að reka bandaríska heimsvaldastefnu á undanhald, bæði í heiminum almennt og innanlands í Bandaríkjunum.

Fyrir allt þetta verðskulda Víetnamar mikla þökk.

### SÍÐUSTU ATBURÐIR

En hvað er á seyði þar nú, og hvernig gat það farið svo ?

Árásargjörn afstaða víetnamskra stjórnvalda til Kampútsíu og vopnaðar innrásir í land hennar eru nú orðnar heimi kunnar ekki aðeins sem óljósar og ótrúlegar fregnir eins og í fyrstu, heldur sem óyggjandi staðreyndir.

Sama gildir um slæma meðferð víetnamskra yfirvalda á kínverjum, búsettum í Víetnam. Víetnömsk stjórnvöld láta í veðri vaka að þeir berjist aðeins stéttarlegri baráttu gegn eignamönnum í sínu landi og þeir geti ekki að því gert, þótt flestir Kínverjar í landi þeirra séu kaupmenn og þess háttar fólk. Ljóst er nú orðið að þetta eru hreinar rangfærslur. Kínverjar hafa sjálfir sýnt fram á að mikill meirihluti Kínverja í Víetnam eru venjulegt alþýðufólk, jafn eignasnautt og önnur alþýða. Aðgerðir víetnömsku ríkisstjórnarinnar á hendur Kínverjum eru því ekki stéttarlegar aðgerðir, heldur árásir á Kínverja sem þjóð. Það sýna einnig neikvæð viðbrögð þeirra við tilmælum um að leysa málin með viðræðum við stjórnvöld Kína í stað þess að ofsækja kínverska minnihlutann.

Víetnam hefur einnig heri í fleiri löndum en Kampútseu t.d. í Laos, en þar eru þeir með fullu samþykki stjórnvalda. Spurningin er : til hvers ?

Síðasti sprotinn á þróuninni í Víetnam er nýleg innganga þeirra í efnahagsbandalag sósíalheimsvaldaseggja, COMECON. Margir spyrja með réttu, hvað nýfrjálst sósíalískt ríki hafi að gera í slíka glæpasamsteypu.

### ÁSTANDIÐ INNANLANDS

Ástandið innanlands virðist ekki vera eins og best verður á kosið í Víetnam. Við því er heldur ekki að búast, eins risavaxin og gífurleg verkefnin voru eftir áratuga eyðileggingarstarf bandarískra heimsvaldaseggja. En vart verður sagt að víetnamskir leiðtogar hafi valið rétta leið, það sýna aðgerðirnar gegn kínverska minnihlutanum og innganga landsins í COMECON. Eitthvað er ekki eins og það á að vera í sósíalísku ríki.

### VÍETNAM ER EKKI SÓSÍALÍSKT

Allt leiðir þetta til sömu niðurstöðu. Víetnamar náðu frelsi sínu, en þar ríkir enginn sósíalismi. Sósíalísk ríkisstjórn ræðst ekki á nágrannaríki sitt með vopnum og yfirgangi, síst af öllu ef það ríki er einnig sósíalískt. Því að enginn þarf að efast um að í Kampútseu fer fram meðvituð og öflug sósíalísk uppbygging. Sósíalísk ríkisstjórn kúgar ekki þjóðernisminnihluta í eigin landi. Sósíalísk ríkisstjórn hefur ekki standandi heri í öðrum ríkjum. Sósílísk ríkisstjórn styður ekki heimsvaldastefnu risaveldis og efnahagssamsteypur undir stjórn heimsvaldaseggja.

Því miður - hin yfirlýsta sósíalíska bylting í Víetnam varð aldrei sósíalísk. Hvað veldur.?

### ÁHRIF SOVÉTRÍKJANNA

Sovétríkin veittu Víetnömum mikla aðstoð í þjóðfrelsisstríðinu. Það gerðu einnig aðrir, svo sem Kínverjar. Kínverjar hafa aldrei aðstoðað önnur ríki með það fyrir augum að hagnast á því sjálfir eða styrkja eigin stöðu. Þeir hafa því aldrei sett nein skilyrði fyrir aðstoð sinni. Sovétríkin eru hins vegar kunn fyrir slík skilyrði og þvinganir, og þótt þau hafi ekki farið hátt í Víetnam, er engin ástæða til að ætla að framkoma þeirra þar sé önnur en annars staðar. Allt bendir því til að veigamesta ástæðan fyrir innri þróun í Víetnam nú og stefnu víetnamskra stjórnvalda út á við sé sú, að Sovétríkin séu þar nú á fullri ferð að innheimta skuld sína. COMECON-aðildin getur aldrei orðið neitt annað en bein blóðtaka á víetnamskri alþýðu. Stjórnarherrar í Víetnam hafa lagst hundflatir fyrir þvingunum Rússa með því að gæta hagsmuna þeirra og boða stefnu þeirra í SA-Asíu. Eitt af heimsvaldaáformum Sovétríkjanna er að koma sér upp órofinni keðju leppríkja í SA-Asíu til að styrkja sína eigin stöðu og sína eigin hagsmuni í þessum löndum og þessum heimshluta og til að berja niður þá samúð sem alþýða þessara landa hefur með raunverulegum sósíalisma svipuðum þeim sem framkvæmdur er í Kampútseu og Kína. Og til að ná þessum markmiðum er engu eirt. Rógburður og lygar um sósíalísk ríki og beinar hernaðarlegar árásir á þau eru meðal þessara meðala.

Íslenskir kommúnistar virða víetnömsku þjóðina fyrir stórfengleg afrek hennar. En þau stjórnvöld sem haga sér á þann hátt sem víetnamska stjórnin hefur gert sig seka um, virðum við ekki. Þeir kommúnistar sem gera á einhvern hátt tilraun til að réttlæta aðgerðir Víetnama fremja alvarlega villu. Við erum þess fullviss að víetnamska þjóðin á eftir að varpa af sér oki sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna og innlendra endurskoðunarsinna. Við vonum aðeins að sú barátta verði ekki jafn blóðug og löng og barátta þessarar hraustu þjóðar gegn bandarísku heimsvaldaglæpamönnunum.



# Heimastjórn á Grænlandi: Styrkir danska nýlendustefnu

Ríkisstjórn Danmerkur hefur nú lagt fyrir danska þingið frumvarp til laga um heimastjórn fyrir Grænland. Frumvarp þetta er byggt á niðurstöðum heimastjórnarnefndar, sem var sett á laggirnar fyrir tveim árum síðan. Í nefnd þessari áttu sæti 15 manns, þar af 7 grænlendingar - allir í tengslum við stóru grænlensku flokkanna Atassut og Siumut, 7 fulltrúar frá dönsku þingflokkunum og formaður nefndarinnar. Fjallað var um frumvarpið 24.maí, en endanleg afgreiðsla þess verður í nóvember. Verði frumvarpið samþykkt, sem allt bendir til, munu Grænlendingar fá heimastjórn 1.maí 1979.

Nú kynnu margir að álíta að þetta sé stórt skref í átt til sjálfstæðis fyrir Grænlendinga. En ef litið er nánar á heimastjórnarfrumvarpið, kemur annað í ljós.

### "Varðveiting ríkiseiningarinnar".

Heimastjórnin grænlenska mun byggja afdráttarlaust á "varðveitingu ríkiseiningarinnar". Þetta þýðir, að það er margt, sem Grænlendingar og heimastjórnin hafa ekki vald til að ákveða:

Dönsk lög, sem m.a. vernda einkaeignina á atvinnutækjum, munu gilda áfram í Grænlandi. Allt sem við kemur danskri utanríkis- og öryggispólitík og dönskum efnahagsmálum, liggur utan valdsviðs heimastjórnarinnar; sem dæmi má nefna það, heimastjórnin getur ekki stjakað við þeim mörgu bandarísku herstöðvum sem eru á Grænlandi í dag. Þá er mikilvægt að vekja athygli á því, að hinni miklu framkvæmdaáætlun danska ríkisins, verður haldið utan heimastjórnarinnar. Það munu því áfram vera dönsku stjórnstofnanirnar, sem ákveða staðsetningu hafna og samgöngukerfis, þéttbýlisstaða og framleiðslutækja. Þar með mun ríkið áfram geta ákveðið hversu mikið grænlenskt vinnuafl verður til ráðstöfunar fyrir danskt auðmagn.

Heimastjórnin mun hinsvegar sjá um rekstur skóla, útvarps, kirkju og menningarlífs, rekstur Konunglegu grænlensku verslunarinnar (KGV), fiskveiðar og fiskiðnað ásamt samningum á vinnumarkaðinum og nýtingu grænlenskra auðlinda.

Á öllum þessum sviðum eru gerðar mikilvægar undantekningar sem munu vernda fullkomlega hagsmuni dansks vesturevrópsks og norðuramerísks einokurarauðvalds. Hér verður rakið hvernig þetta kemur fram varðandi auðlindir Grænlands.

### RÁÐSTÖFUN GRÆNLENSKRA AUÐLINDA

Grænland er auðugt af mörgum verðmætum jarðefnum og nýting grænlenskra auðlinda hefur gífurlega mikið að segja fyrir einokunarauðvaldið. Hagsmuna þess er vandlega gætt í heimastjórnarfrumvarpinu.

Í frumvarpinu er gert ráð fyrir gagnkvæmri ákvörðunartöku milli danska ríkisins og heimastjórnarinnar um ráðstöfun grænlenskra auðlinda. Heimastjórnin mun því formlega hafa möguleika á því að hindra rányrkju auðlinda Grænlands. En a.m.k. þrjár mikilvægar undantekningar eru í frumvarpinu, sem gera þessa "gagnkvæmu ákvörðunartöku" og yfirráð Grænlendiga yfir auðlindum sínum að engu:

1. Vinnsla hráefna, sem bundin er í alþjóðlegum samningum, heyrir ekki undir heimastjórnina. Ef Efnahagsbandalag Evrópu ákveður svo, er Danmörk skyldug til að vinna olíu við Grænland, ef svo færi að hún finndist þar, sem liður í ......
Ámóta tilhögun getur náð yfir hvaða auðlind Grænlands sem er.

2. Þau leyfi sem nú þegar hafa verið veitt til vinnslu hráefna, eru undanskilin hinni "gagnkvæmu ákvörðunartöku". Dæmi um þetta er sink- og blývinnsla auðhringsins Greenex í Marmorilik og olíuleit olíuauðhringa við Grænlandsstrendur.

3. Sama gildir ef ein heimastjórn veitir slík leyfi, þá getur önnur heimastjórn ekki ógilt leyfin.

Ofangreind atriði sýna að ráðstöfun auðlinda Grænlands verður áfram í höndum danska ríkisins.

### BRAGÐ HEIMSVALDASINNA

Heimastjórn á Grænlandi hefur þann eina tilgang að slá ryki í augu umheimsins og Grænlendinga sjálfra, og um leið styrkja stöðu dönsku nýlenduherranna. Heimastjórnin er því á engan hátt framsýnt skref, heldur mun hún miklu heldur seinka komu þess dags er Grænlendingar öðlast sjálfstæði. Margir Grænlendingar hafa gert sér grein fyrir þessu, og berjast ötullega gegn frumvarpinu, en á Grænlandi finnast einnig dyggir þjónar dönsku nýlendustefnunnar. Þá er einkum að finna í áðurnefndum stjórnmálaflokkum, Atassut og Siumut. Þessir menn koma til með að hagnast á heimastjórn, þeir munu komast í toppstöður í stjórnkerfinu - það er ástæðan fyrir því að fulltrúar þeirra samþykktu tillögurnar um heimastjórn. Áhrif þessara afla eru nokkuð sterk á Grænlandi í dag, því er allt útlit fyrir að heimastjórnarfyrirkomulaginu verði komið á á næsta ári.

# EIK (m-l) styðja baráttu Kampútseu

Í heimsókn sendinefndar EIK (m-l) til Kína heimsótti hún m. a. sendiráð Kampútseu (Kambódíu) í Peking. Þar var afhent yfirlýsing frá EIK(m-l) og fer úrdráttur úr henni hér á eftir. Að auki hefur miðstjórn EIK (m-l) sent miðstjórn Kommúnistaflokks Kampútseu kveðju.

"Stuðningsyfirlýsing til Kommúnistaflokks Kampútseu og alþýðunnar í Kampútseu frá Einingarsamtökum kommúnista (m-l), EIK(m-l), Íslandi.

Kæru félagar!

EIK(m-l) lýsir yfir fullum stuðningi sínum við baráttu ykkar. Þetta er réttlát barátta sem þjóð ykkar á í gegn árásarstefnu og stórveldisásælni Víetnam. Í árásarstríði sínu gegn landi ykkar er Víetnam stutt af sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, sem í raun og veru stýrir aðgerðum Víetnama.

Þó svo að Víetnam sé hernaðarlega sterkt og að nýju keisararnir í Kreml ausi í þá vopnum, þá munu örlög Víetnam verða þau sömu og annarra árásar- og yfirgangsseggja, sem ráðast á önnur lönd - það mun bíða ósigur. Örlög Víetnam eru ömurleg. Víetnam skipar sér á sama bekk og t.d. Kúba sem útsendari sósíalheimsvaldastefnunnar, annars af tveimur hættulegustu óvinum alþýðunnar um allan heim.



EIK(m-l) hefur alltaf stutt baráttu ykkar gegn árásum á land ykkar og gegn allri heimsvaldastefnu. EIK(m-l) styður núna baráttu ykkar gegn árásum afturhaldssinna og endurskoðunarsinna. Við munum vinna að því að efla stuðningsstarfið við baráttu lands ykkar. Við viljum líka styrkja tengslin milli kommúnistanna í Kampútseu og á Íslandi og tengslin milli alþýðu beggja landanna.

Félagar! Við styðjum ykkur heils hugar og fordæmum árásir Víetnam á land ykkar. Við erum viss um að barátta ykkar mun leiða til sigurs yfir árásarseggjunum. Við vitum að þegar alþýðan stendur einhuga og berst réttlátri baráttu, þá getur enginn unnið sigur á henni. Við höfum séð að alþýðan í Kampútseu sigraði bandarísku heimsvaldastefnuna - risaveldi - og við vitum að alþýða Kampútseu mun sigra árásarstríð Víetnams, sem er stutt og stjórnað af sovésku sósíalheimsvaldastefnunni - ásæknu og stríðsóðu risaveldi.

Lifi einingin milli íslenskra og kampútseanskra kommúnista!

Lifi einingin milli alþýðunnar í Kampútseu og á Íslandi!"

Þá hefur miðstjórn EIK(m-l) borist kveðja frá miðstjórn Kommúnistaflokks Kampútseu, og er fjallað um hana nánar á öðrum stað í blaðinu.

## Stofnum kommúniskan flokk 2.

# Jósef Stalín: TVEIR KAFLAR UM FLOKK OG FJÖLDA

Myndin væri ófullkomin ef við tækjum ekki fyrir spurninguna um hvernig og hvers vegna bolsévíkkum tókst að gera flokkskröfur sínar að kröfum milljónafjöldans, kröfum sem þróuðu byltinguna áfram – hvernig og hvers vegna þeim tókst að sannfæra ekki aðeins forystusveitina og ekki aðeins meirihluta verkalýðsstéttar, heldur einnig meirihluta alþýðunnar um að stefna þeirra væri rétt.

Sannleikurinn er nefnilega sá, að eigi byltingin að sigra – svo framarlega sem hún er raunveruleg alþýðubylting sem tekur til milljónafjöldans – er ekki nóg að kröfur flokksins séu réttar. Til að byltingin sigri þarf að fullnægja enn einu skilyrði, nefnilega því að fjöldinn sannfærist af eigin reynslu um réttmæti þessara krafna. Aðeins þannig geta kröfur flokksins orðið kröfur fjöldans sjálfs. Aðeins þannig verður byltingin raunveruleg alþýðubylting. Eitt af sérkennum við baráttuaðferðir bolsévíkka við undirbúning Októberbyltingarinnar var að þeir lærðu að ákvarða þær leiðir og stigu sem á eðlilegan hátt færðu fjöldann nær kröfum flokksins, svo að segja leiddu hann að þröskuldi byltingarinnar. Þannig varð fjöldanum auðveldara að skilja, reyna og viðurkenna réttmæti þessara krafna á grundvelli eigin reynslu. Með öðrum orðum – eitt af sérkennum í bardagaaðferð



bolsévíkka er að þeir rugla ekki saman þeim tveim verkefnum að leiða flokkinn og leiða fjöldann, að þeir sjá skýrt mismuninn á þessari tvenns konar leiðsögn, og bardagalist bolsévíkka er þannig ekki aðeins vísindin um leiðsögn yfir flokknum, heldur einnig vísindin um hvernig leiða beri hinn vinnandi milljónafjölda.

(Úr "Októberbyltingin og baráttuaðferðir rússneskra kommúnista", þýtt eftir "Stalin: Spörsmål i leninismen". Oslo 1976, bls. 99–100.)

Þar með erum við komin að því, sem varðar innri afstöðu milli flokksins og stéttarinnar, milli flokksfélaga og flokkslausra í verkalýðsstétt.

Lenín skilgreinir þessa innri afstöðu sem "gagnkvæmt traust milli framvarðarsveitar verkalýðsstéttarinnar og verkalýðsfjöldans". (Ræða um verkalýðsfélögin, 1921). Hvað merkir þetta ?

Það merkir í fyrsta lagi að flokkurinn verður að hlýða á rödd fjöldans af árvekni, að hann verði að veita athygli byltingarsinnuðu eðli fjöldans, að hann verði að nema baráttureynslu fjöldans og kanna þar með um leið hvort hann beitir réttri stefnu, – að hann eigi sem sé ekki aðeins að fræða fjöldann, heldur einnig læra af honum.

Það merkir í öðru lagi að flokkurinn verður sífellt að halda trausti öreigafjöldans, að hann verði að berjast fyrir stuðningi fjöldans með þeirri stefnu sem hann fylgir og því starfi sem hann skilar, að hann megi ekki skipa fyrir, heldur fyrst og fremst sannfæra, og þar með gera fjöldanum auðveldara um vik að sjá af eigin reynslu að stefna flokksins er rétt, – að flokkurinn eigi að vera leiðtogi, stjórnandi, kennari stéttar sinnar.

Sé brotið gegn þessum skilyrðum, merkir það að rétt innri afstaða milli forystusveitarinnar og stéttarinnar er rofin, að grafið sé undan "gagnkvæmu trausti" og að bæði stéttaraginn og flokksaginn fari í upplausn.

(Úr "Um spurningar í lenínismanum", þýtt eftir "Stalín: Spörsmål í leninismen". Oslo 1976, bls. 126.)

# „KFÍ/ML" og kosningarnar

Í viðtali við Stéttabaráttuna þann 4.júlí s.l. var Sigurður Jón Ólafsson annar maður á lista "KFÍ/ML" í Alþingiskosningunum spurður álits á úrslitum kosninganna. Þar lýsti hann þeirri skoðun sinni að með framboðinu hafi flokkurinn aðeins auglýst veikleika sinn og að á engan hátt sé hægt að túlka úrslitin sem mikinn sigur fyrir verkalýðinn. Einnig sagði Sigurður í viðtalinu að ef takast eigi að mynda pólitískt forystuafl fyrir verkalýðinn verði að koma til sameining íslenskra marx-lenínista.

Af viðtali þessu er ljóst að ekki ríkir eining innan "KFÍ/ML" hvorki um það hvað kosningaúrslitin þýða fyrir flokkinn né hvort hann sé raunverulega pólitískt forystuafl íslensks verkalýðs. Sú afstaða hefur greinilega komið fram í Stéttabaráttunni sem opinber stefna flokksins að með þátttöku sinni í kosningunum hafi "KFÍ/ML" unnið mikinn sigur, þrátt fyrir atkvæðatölurnar (128 atkvæði). Hefur sigurinn m.a. verið rökstuddur með því að í kosningabaráttunni hafi baráttumál flokksins greypt sig inn í hugi kjósenda og árangur baráttunnar muni því skila sér seinna þegar kjósendur hafa komist að því að baráttumálin eru rétt.

HEIÐARLEGT MAT

Hingað til hefur flokkurinn einnig viljað telja sig forystuafl íslensks verkalýðs, Kommúnistaflokk, og að þar þurfi enga sameiningu til.

Mat Sigurðar Jóns á kosningaúrslitunum er mun raunhæfara en opinber lína flokksins. Hann virðist einnig gera sér grein fyrir því að þau muni veikja stöðu flokksins ennfremur innan verkalýðsfélaganna og var hún þó æði burðarlítil fyrir. Með því að koma nú fram með þessar skoðanir virðist Sigurður Jón vera að andæfa þeirri upphlaups- og ævintýrapólitík sem stöðugt verður meira áberandi í öllu starfi og stefnu flokksins.

Honum virðist hins vegar ljóst að pólitísk afstaða hans má sín lítils gagnvart stefnu hentistefnumanna í "KFÍ/ML" og minnist á það að eina lausnin sé sú að hvetja til sameiningar við EIK(m-l). Mat Sigurðar Jóns er heiðarlegt og raunhæfara en annað það sem sést hefur úr herbúðum "flokksins" um kosningaskellinn.

Afstaða EIK(m-l) til sameiningar íslenskra marx-lenínista í ein samtök er skýr. Samtökin settu fram heilsteyptan sameiningargrundvöll íslenskra kommúnista í verkalýðsflokk árið 1976. Þar var sett fram grundvallarafstaða marx-lenínista til þjóðfélagsmála, helstu baráttumála heima og heiman og til sameiningar kommúnista. EIK(m-l) lýstu því yfir þá og lýsa því yfir enn að samtökin væru reiðubúin að sameinast einstaklingum og samtökum á grundvelli sameiningargrundvallarins. "KFÍ/ML" hefur hins vegar aldrei svarað þessu plaggi einu orði allt til þessa dags og hefur til þessa hafnað sameiningunni

# Kveðja fra Kampútseu

Til miðstjórnar Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) Íslandi.

Með ánægju höfum við móttekið árnaðaróskir ykkar í tilefni þriggja ára afmælis sigursins mikla 17. apríl 1975 og stofnunar Lýðfrjálsrar Kampútseu. Kveðjur ykkar bera vitni einlægum byltingar og vináttuhug Einingarsamtaka kommúnista (m-l), verkalýðsstéttar og alþýðu á Íslandi til Kommúnistaflokks Kampútseu alþýðunnar og Byltingarhersins. Með þessu hafið þið sýnt kröftuga hvatningu og stuðning við réttláta baráttu alþýðunnar og Byltingarhersins undir réttri leiðsögn Kommúnistaflokks Kampútseu til að verja sjálfstæði, sjálfræði, yfirráðasvæði og framrás byltingarinnar. Þið hafið jafnframt hvatt og stutt dyggilega alþýðu Kampútseu í baráttu hennar fyrir sósíalisma með því að halda fast við sjálfstæði, sjálfræði og treysta á eigin krafta, Fyrir hönd miðstjórnar Kommúnistaflokks Kampútseu og alþýðu landsins sendum við ykkur bróðurlegar kveðjur.

Við óskum Einingarsamtökum kommúnista (m-l), verkalýðsstétt og alþýðu Íslands, sigurs í byltingarbaráttunni.

Með bestu byltingarkveðjum.

Phnom Penh, 10. júní,1978

Utanríkisnefnd miðstjórnar
Kommúnistaflokks Kampútseu

# Nýr Rauðliði

Fyrsta tbl. Rl. 1978 hefur séð dagsins ljós. Að þessu sinni er ritið offsetprentað í minna broti en áður.

Í þessu tbl. Rl. er m.a. að finna grein sem fjallar um sjálfstæðisbaráttu, stríðshættuna og alþýðustríð, síðustu greinina í greinaflokki um þróun Sovétríkjanna og grein um uppbyggingu sósíalismans í Kína.

Nú er hægt að kaupa áskrift að Rauðliðanum. Áskrift í 1 ár (4 tbl.) kostar:

- venjuleg áskrift 1500
- stuðnings áskrift 2500

Verð lausasölu er 400 kr.

GERIST ÁSKRIFENDUR STRAX ! – það tryggir fjárhagslega afkomu Rl. og ykkur hvert eintak.

# Mikilvæg ályktun AKP(m-l) og EIK(m-l)

Nýlega héldu fulltrúar EIK(m-l) og kommúnista flokks verkamanna (marx-lenínista) –AKP(m-l) með sér fund, þar sem m.a. var rædd þróun stéttabaráttunnar í Noregi og á Íslandi, alþjóðaástandið og sérstaklega aukin stríðshætta. Fundurinn staðfesti grundvallareiningu samtakanna m.a. um afstöðu til alþjóðamála og stríðshættu. Einnig voru EIK(m-l) og AKP(m-l) sammála um að kenning Maós Tsetungs um hina þrjá heima væri réttur vegvísir í sameiginlegri baráttu gegn heimsvaldastefnu og drottnunarstefnu. Fundurinn styrkti enn ágætt samband samtakanna.

Hér skal birt sameiginleg ályktun frá fundinum, en geta má þess að úrdráttur úr henni og frásagnir um fundinn hafa verið birtar í mörgum málgögnum kommúnista víða um heim. Dagblaðið KLASSEKAMPEN, málgagn AKP(m-l) birti ályktunina í heild, einnig virti Dagblað alþýðunnar í Peking úrdrátt úr henni, svo og birti kínverska fréttastofan HSINHUA úrdrátt í fréttaskeytum sínum sem send eru um allan heim.



AKP(m-l) og EIK(m-l) eru bróðursamtök og þjóna hagsmunum verkalýðs og vinnandi fjölda í Noregi og á Íslandi. Í samræmi við það og alþjóðahyggju verkalýðsins styðja AKP(m-l) og EIK(m-l) baráttuna í báðum löndum gegn einokunarauðvaldi, heimsvaldastefnu og risaveldunum tveimur, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum.

AKP(m-l) styður kröfu Íslands um full yfirráð yfir 200 sjómílna fiskveiðilögsögu umhverfis Ísland. AKP(m-l) hefur stutt baráttu íslensku alþýðunnar gegn breskri og vestur-þýskri heimsvaldastefnu, og mun styðja baráttu gegn hvers konar viðleitni risaveldanna til að ná yfirráðum yfir Íslandi.

AKP(m-l) er andvígur og fordæmir heimsvaldastefnu Noregs gagnvart Íslandi, sem m.a. birtist í byggingu járnblendiverksmiðju á vegur Elkem Spigerverket.

EIK(m-l) styðja heils hugar 200 mílna fiskveiðilögsögu og landhelgi við Noreg, og kröfu um að miðlína skuli gilda sem viðmiðun við skiptingu hafsvæða í norðri. EIK(m-l) styðja heils hugar þá baráttu sem háð er gegn sósíalheimsvaldastefnunni á Svalbarða og í Barentshafinu.

Ríkisstjórnir Íslands og Noregs hafa í seinni tíð átt viðræður um það hvernig hafsvæðinu á milli Íslands og Jan Mayen skuli skipt. Varðandi þetta mál gefa AKP(m-l) og EIK(m-l) út svohljóðandi yfirlýsingu:

1. AKP(m-l) og EIK(m-l) slá föstu að Jan Mayen sé hluti af Noregi. Ekkert annað ríki getur gert tilkall til Jan Mayen.

2. AKP(m-l) og EIK(m-l) styðja heils hugar þá meginreglu að hafsvæðum sé skipt eftir miðlínum, en risaveldin tvö og þá sérstaklega sósíalheimsvaldasinnar Sovétríkjanna berjast ákaflega gegn þessu.

3. Varðandi hafsvæðið milli Jan Mayen og Íslands er einnig nauðsynlegt að taka sérstakt tillit til lífsnauðsynlegra hagsmuna Íslands. Framkvæmd miðlínuskiptingar myndi leiða til þess að Ísland missti 30000 ferkílómetra hafsvæði til Noregs. Þetta hafsvæði er nú innan 200 mílna fiskveiðilögsögu Íslands. Á svæðinu er að finna nokkra af verðmætustu síldarstofnum við Ísland. Þeir eru Íslandi lífsnauðsyn. Þess vegna skal þarna víkja frá miðlínureglunni. Það þjónar hagsmunum íslenskrar og norskrar alþýðu.

4. Á sama hafsvæði hafa ýmis heimsvaldaríki, þar á meðal Noregur og risaveldið Sovétríkin, hafið rannsóknir í því skyni að leita að olíu. Rannsóknir benda til þess að þarna sé að finna olíu.

Verkalýðsstétt Noregs og Íslands verður að vera á varðbergi gagnvart pólitískum hrossakaupum ríkisstjórna landanna tveggja – á kostnað alþýðu Íslands. Ástandið getur gert norsku stjórninni kleyft að nota þetta mikilvæga hafsvæði til að þrýsta á aukið svigrúm til handa norskum einokunarauðhringum til enn meira arðráns á Íslandi. Gegn slíku munu AKP(m-l) og EIK(m-l) berjast og skoða sem afturhaldssama og heimsvaldasinnaða árás.

5. AKP(m-l) og EIK(m-l) munu hvetja allt framsækið fólk í báðum löndum til að mótmæla hvers konar heimsvaldasinnuðum hrossakaupum.

AKP(m-l) hvetur framsækna í Noregi til að krefjast þess að norska ríkisstjórnin falli frá kröfum til svæða innan fiskveiðilögsögu Íslands.

EIK(m-l) hvetja alla framsækna á Íslandi til að krefjast þess að berjast gegn hvers konar eftirgjöfum gagnvart norskri heimsvaldastefnu varðandi svæði innan núgildandi fiskveiðilögsögu og varar íslensku ríkisstjórnina við undansláttarstefnu. EIK(m-l) hvetja samtímis til aukinnar baráttu gegn starfsemi norskra einokunarauðhringa á Íslandi.

6. Þessi stefna þjónar hagsmunum íslensku og norsku alþýðunnar, og mun styrkja sameiginlega baráttu á Norðurlöndum gegn yfirráðastefnu og afturhaldi, heimsvaldastefnu og sérstaklega risaveldunum tveimur, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum.

Miðstjórn EIK(m-l)
Miðstjórn AKP(m-l)

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212



# Spurningar til miðnefndar SHA

Fyrir göngu Samtaka herstöðvaandstæðinga(SHA) þann 10. júní s.l. birtist í fjölmiðlum fréttatilkynningum frá miðnefnd SHA. Þó nokkuð sé um liðið síðan hún birtist teljum við rétt að birta hér hluta úr henni um leið og við viljum beina nokkrum spurningum til miðnefndarmanna SHA.

Í fréttatilkynningunni er fyrst greint nokkuð frá fyrirkomulagi göngunnar en síðan segir: "Nú eiga sér stað í landinu átök milli ríkisstjórnar atvinnurekendavaldsins og launafólks. Er þar tekist á um það hvort ríkisstjórnin eigi að komast upp með að skammta laun og reka með því grófustu arðránsstefnu sem nokkur ríkisstjórn getur gert sig seka um. Í kaupránslögum ríkisstjórnarinnar er freklega gengið á gerða kjarasamninga og launafólki gert að vinna á einu ári 5-6 vikur kauplaust. Eru þessi lög ásamt nýsettum bráðabirgðalögum gott dæmi um efnahagsráðstafanir í því hagkerfi auðvaldsins sem hernum er ætlað að standa vörn um, eins og skýrt kemur fram í "varnarsamningnum" milli Íslands og Bandaríkjanna..." Síðan er sú grein samningsins tíunduð og loks eru herstöðvaandstæðingar hvattir til að vinna að því með oddi og egg að Ísland segi upp herstöðvasamningnum og aðildinni að NATO.

Í þessari fréttatilkynningu er vísvitandi blandað saman annars vegar baráttu launafólks í landinu fyrir bættum kjörum og óskertum samningsrétti og hins vegar baráttunni fyrir brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO. Með því fer Miðnefnd langt út fyrir grundvöll SHA. Enginn má skilja það svo að baráttan gegn kaupránslögunum sé lítilvæg barátta, hins vegar á hún fyrst og fremst að fara fram á öðrum vettvangi, á vinnustöðum og innan verkalýðshreyfingarinnar. Að setja árásir atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra á gerða samninga sem aðalmál Keflavíkurgöngunnar jafngildir í raun því að halda því fram að ef þær hefðu ekki komið til hefði aðgerð á borð við Keflavíkurgönguna verið óþörf nú.

Miðnefnd fer einnig mjög frjálslega með stefnuskrá SHA þegar hún reynir að sýna fram á hvernig herstöðvamálið tengist kjaraskerðingunum. Í fréttatilkynningunni segir að þær séu gott dæmi um efnahagsráðstafanir í því hagkerfi auðvaldsins sem hernum sé ætlað að standa vörð um. Út úr þessu er ekki hægt að lesa annað en að miðnefnd sé að boða það að SHA hyggist breyta hagkerfinu (með byltingu - eða hvað?). Það kemur fram í stefnuskrá SHA að með baráttu sinni eru samtökin fyrst og fremst að berjast fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar íslensku þjóðarinnar og gegn heimsvaldaásælni stórvelda hér. Byltingarbaráttan er ekki á dagskrá samfylkingarinnar. Slíkar ofurróttæknishugmyndir eins og endurspeglast í grein miðnefndar eru aðeins klofningsvaldur í röðum herstöðvaandstæðinga. Með þeim er reynt að þrengja grundvöll samfylkingarinnar.

Þessi fréttatilkynning sem hér hefur verið rakin er langt frá að vera eina dæmið um það hvernig miðnefnd SHA hefur notað vald sitt til að brjóta gegn grundvelli samtakanna. Mörg önnur dæmi mætti til nefna.

Verkalýðsblaðið vill því beina eftirfarandi spurningum til Miðnefndar SHA með von um svör:

1. Er það sameiginleg stefna Miðnefndar að með aðgerðunum 10.júní hafi herstöðvaandstæðingar verið að mótmæla kaupránslögunum?

2. Stendur Miðnefnd SHA fyrir þeirri stefnu að með kröfum sínum um brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO séu SHA að stefna að byltingu á Íslandi (eða breytingu á núverandi hagkerfi auðvaldsins)?

3. Er Miðnefnd SHA sammála því að með baráttu sinni sé SHA fyrst og fremst að berjast fyrir verndun sjálfræðis ísl. þjóðarinnar og gegn heimsvaldaásælni?



## „Gröndalía“ að skríða saman?

# Stjórnarmyndunarsirkusinn í fullum gangi

Ríkisstjórnarmyndun borgaralegu flokkanna er nú í fullum gangi. Það verður æ ljósara fyrir fólki hvert hlutverk þeirra flokka sem kalla sig "verkalýðsflokka" er í þeim viðræðum. Alþýðuflokkur og Alþýðubandalag hafa sýnt að þeir eru fúsir til að leggja flokka sína undir beina stjórn einokunarauðvaldsins og íhaldsins, fái þeir aðeins að "halda andlitinu" með loðnum yfirlýsingum og sýndarmennsku.

Reyndar hefur ekkert það komið fram í stefnu Alþýðuflokksins sem auðherrar geta ekki samþykkt hvenær sem er. "Kjarasáttmáli" Alþýðuflokksins getur t.d. aldrei orðið annað en sá nauðungar sáttmáli gagnvart verkalýð sem auðvaldið hefur lengi beðið eftir, löggilding á þeim síf jölgandi aðgerðum ríkisvalds auðvaldsins til að grípa fram í kjarasamninga og brjóta á bak aftur það litla sem verkalýðnum tekst að knýja fram til kjarabóta eða til stöðvunar kjaraárása.

Alþýðubandalagið á í mestu erfiðleikum með að éta ofan í sig stefnu sína í hermálinu. En hermálið hefur aldrei verið forystu þess heilagt mál. Það sýna tvær "vinstri" stjórnir og skemmdarverkastarf bandalagsins í Samtökum herstöðvaandstæðinga. Spurningin sem forystumenn Alþýðubandalagsins velta fyrir sér þessa dagana er aðeins sú, hvernig þeir geti komið málum svo fyrir að stjórnarþátttaka þeirra líti ekki út sem algjör svik við þann mikla fjölda fólks sem kýs þá eingöngu vegna þessa máls.

Stefna Alþýðubandalagsins að öðru leyti fellur eins og flís við rass við stefnu annarra borgaralegra flokka. Líklega gerir Alþýðubandalagið það nú að meginatriði, að mesta nauðsynjaverkið í íslenskum stjórnmálum í dag sé að "rétta við þjóðarhag", "gera sameinaða atlögu gegn verðbólgudraugnum", " tryggja tilveru íslenskra atvinnuvega" o.fl. í þeim dúr. Alþýðubandalagið mun ekki nota þau orð sem marxistar og raunverulegir baráttumenn gegn auðvaldinu nota um slíkar hjálparaðgerðir - nefnilega að reyna að bjarga auðvaldsþjóðfélaginu upp úr sinni eigin efnahagskreppu.

En þessar tilraunir til að bjarga málunum munu að sjálfsögðu ekki takast. Auðvaldskreppan verður ekki læknuð með meðulum auðvaldsins sjálfs og borgaralegra flokksklíkna þess. Auðvaldskreppan verður ekki að velli lögð innan ramma þess þjóðskipulags sem elur hana af sér. Í sósíalískum þjóðfélögum er engin kreppa til, því að þar eru tök auðvaldsins á samfélaginu að engu orðin. Alþýðubandalagið hafnar hinni sósíalísku leið, jafnt í orði sem á borði, og er því engu síður borgaralegur flokkur en Sjálfstæðisflokkur og Alþýðuflokkur.

Alþýðuflokkur og Alþýðubandalag kalla sig "verkalýðsflokka". Með sama rétti krefst Sjálfstæðisflokkurinn þess nú að vera einnig kallaður "verkalýðsflokkur. Nú vantar aðeins kröfu um það frá Óla Jó að Framsókn sé ekki undanskilin þegar talað sé um "verkalýðsflokkana" - þá eru allir flokkarnir á þingi orðnir "verkalýðsflokkar".

Staðreyndin er hins vegar sú, að enginn þessara flokka hefur nokkurt leyfi til að kalla sig "verkalýðsflokk", því að enginn þeirra berst fyrir hagsmunum verkalýðs. Á Íslandi er því miður enginn verkalýðsflokkur til. Einingarsamtök kommúnista (marx-leninista) stefna að stofnun slíks flokks og vilja taka höndum saman við alla sanna verkalýðssinna og allt baráttufólk fyrir hagsmunum og rétti verkafólks til að slíkt megi verða. Takmark EIK(m-l) er að slíkur flokkur verði stofnaður fyrir lok næsta árs. Til þess að svo megi verða, þarf að vinna mikið og erfitt starf. Og það starf verður ekki unnið nema fleiri hendur sameinist um það.

# Ávarp frumkvæðisnefndar 21.ágúst-hreyfingar 1978

Þann 21.ágúst næstkomandi, er réttur áratugur liðinn frá því að sovéski herinn hernam Tékkóslóvakíu. Nú tíu árum síðar, halda 50 þúsund sovéskir hermenn landinu í járngreypum. Öll andstaða við hið erlenda kúgunarvald og leppa þess er miskunarlaust brotin á bak aftur. Lýðréttindi eru fótum troðin og ofsóknir á hendur lýðræðisöflum verða sífellt harkalegri. En þrátt fyrir tilraunir Kreml-herranna til þess að berja niður alla mótstöðu, vex andspyrnan jafnt meðal verkamanna, bænda sem menntamanna í Tékkóslóvakíu.



Á árunum eftir aðra heimsstyrjöldina ógnaði bandaríska heimsvaldastefnan ein heimsfriðnum. Innrásin í Tékkóslóvakíu 1968 færði hinsvegar áþreyfanlegar sönnur fyrir því, að Bandaríkin höfðu eignast öflugan keppinaut - Sovétríkin. Þróunin síðan hefur sýnt rækilega framá árásarstefnu þessa nýja risaveldis. Er skemmst að minnast blóðugs yfirgangs þess í Afríku.

Bæði risaveldin - Sovétríkin og Bandaríkin - ógna Íslandi ekki síður en Tékkóslóvakíu. Hernaðarleg útþensla Sovétríkjanna í Evrópu og þá sérstaklega á N-Atlantshafi hefur í för með sér sívaxandi ógnun við sjálfstæði Íslands. Bandaríkin fara enn með báli og brandi um mörg lönd jarðar, þótt þau séu á undanhaldi vegna framvaxtar Sovétríkjanna. Þau hafa hér herstöðvar með fulltingi NATO. Hvort um sig geta þau búið okkur sömu örlög og Tékkóslóvakíu. Barátta framsækinna afla á Íslandi í Tékkóslóvakíu og í Afríku, beinast gegn sameiginlegum óvini. Réttur alþýðu og heimsfriður verður einungis tryggður með einarðri baráttusamstöðu gegn stríðsundirbúningi og yfirgangi risaveldanna.

21.ágúst-hreyfingin 1978 verður stofnuð sem framlag til þessarar baráttu. Hún er samfylking einstaklinga úr öllum flokkum og er óbundin öllum pólitískum samtökum. Hún mun beita sér fyrir mótmælaaðgerðum og fundi þann 21.ág. n.k., undir eftirfarandi kjörorðum:

- Heri Sovétríkjanna burt úr Tékkóslóvakíu !
- Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka !
- Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna !
- Gegn allri heimsvaldastefnu, Ísland úr NATO - herinn burt !

Frumkvæðisnefnd:

Anna Traustadóttir póstmaður, Arnór Sighvatsson nemi, Brynja Óskarsdóttir verkakona, Guðbjartur Sigurðsson verkamaður, Hjálmar Jósefsson, Jón Þorkelsson verkamaður, Matthías V. Sæmundsson nemi, Pétur Gunnarsson rithöfundur, Sigurður Ísfeld verkamaður, Sigurður Sæmundsson sjómaður, Trausti Hauksson verkfræðingur.

## UPPSAGNIR Á HEKLU...

frh.af forsíðu

erfitt með að losa sig við vörur sínar. Þeir verða að fylgja leikreglum kapítalismans til að verða ekki undir í samkeppninni. Það er að segja þeir spenna verðlagið upp eins og þeir geta. Launin hækka ekki með sama hraða. Fólk á Íslandi og í öðrum löndum getur ekki keypt allt sem framleitt er, það er orðið of dýrt. Afleiðing: "Söluerfiðleikar". Það er gamall sannleikur að íslenska verðbólgan veldur söluerfiðleikum útflytjenda. Það er eitt aðaleinkennið á kreppu íslenska auðvaldsins. SÍS telur sig leysa vandamálið á sniðugan hátt: Þeir ætla að minnka framleiðsluna. Þýðir það að þeir minnki vinnuálagið á verkafólkinu? Þýðir það að þeir segi: "Jæja, gott fólk nú fáið þið að slappa dálítið af, taka tillit til heilsunnar, þannig að bakverkurinn minnki"? Nei, því á dagvaktinni á "prjónadeildinni" er ennþá unnið í bónus! Á meðan kvöldvaktin missir vinnuna. Meiri er ekki "ábyrgðartilfinning" SÍS gagnvart verkafólkinu. Ábyrgðartilfinningin nær ekki lengra en að gróðahagsmunum SÍS. Og gróði þess er mikill. SÍS er einn stærsti og öflugasti atvinnurekandi landsins. Það er alls ekki á mörkum þess að fara á hausinn. Það hefur reynt að láta líta svo út að það þjóni hagsmunum verkafólks í meira mæli en aðrir atvinnurekendur. Með því að segja konunum upp hefur SÍS afhjúpað hve lítið tillit það tekur til verkafólksins.

Iðja félag verksmiðjufólks bugtar sig fyrir hagfræðiskýrslunum og hefur þá afstöðu að þetta sé "hrein kreppa og óviðráðanlegt". Þannig hefur félagið ekki haldið neinn félagsfund um málið en stjórnin aðeins fundað með atvinnurekendum.

En hin stéttvísa afstaða er þessi: verkafólkið ber enga ábyrgð á kreppu auðvaldsins og hafnar því að bera byrðar hennar.

- Full vinna - fyrstu mannréttindi.
- Til baráttu gegn fjöldauppsögnum!